um vísendum, at þaðan af váru dœgr greind ok ára-tal; svá[1] segir í Vǫluspá:

9. Sól þat né vissi,
hvar hon sali átti;
máni þat né vissi,
hvat hann megins átti;
stjǫrnur þat né vissu,
hvar þær staði ǫttu.

Svá var áðr en þetta væri[2]. — Þá mælti Gangleri: Þetta eru mikil tíðendi, er nú heyri ek; fúrðu-mikil smíð er þat ok hagliga gǫr[3]. Hvernig var jǫrðin háttuð? — Þá svarar Hárr: Hon er kringlótt útan ok þar útan um liggr enn djúpi sjár, ok með þeiri sjávar-strǫndu gáfu þeir lǫnd til byggðar jǫtna ættum; en fyrir innan á jǫrðunni gerðu þeir borg umhverfis heim fyrir ófriði jǫtna, en til þeirar borgar hǫfðu þeir brár Ymis jǫtuns, ok kǫlluðu þá borg Miðgarð. Þeir tóku ok heila hans ok kǫstuðu í lopt ok gerðu af skýin, svá sem hér segir:

10. Ór Ymis holdi
vas jǫrð of skǫpuð,
en ór sveita sær,
bjǫrg ór beinum,
baðmr ór hári,
en ór hausi himinn.

11. En ór hans brǫm
gerðu blíð regin
Miðgarð manna sonum;
en ór hans heila
vǫru þau en harðmóðgu
ský ǫll of skǫpuð.

8. Þá mælti Gangleri: Mikit þótti mér þeir hafa þá snúit til leiðar, er jǫrð ok himinn var gǫrt ok sól ok himintungl váru sett ok skipt dœgrum; ok hvaðan kómu menninir, þeir er heim byggva? — Þá svarar Hárr: Þá er þeir gengu með sævar-strǫndu Bors-synir[4], fundu þeir tré tvau ok tóku upp tréin ok skǫpuðu af menn; gaf enn fyrsti ǫnd ok líf, annarr vit ok hrœring, iii. ásjónu, mál[5] ok heyrn ok sjón; gáfu þeim klæði ok nǫfn; hét karlmaðrinn Askr, en konan Embla, ok ólsk[6] þaðan af mannkindin[7], sú[8] er byggðin var gefin undir Miðgarði. Þar næst gerðu þeir sér borg í

[1] sem tf. R. [2] of jǫrð tf. R. [3] Sål. T; gǫrt, R, W. [4] Sål. U, W, T; foran gengu, R. [5] Med art. R, T. [6] Sål. W; ox, U; oluz, R, T. [7] Sål. U, W; -kindir, R, T. [8] Sål. W; þeim, R, T.

miðjum heimi, er kǫlluð er Ásgarðr; þat kalla menn[1] Trója. Þar byggðu goðin ok ættir þeira, ok gerðusk þaðan af mǫrg tíðendi ok greinir bæði á jǫrðu[2] ok í lopti. Þar er einn staðr, er Hliðskjálf heitir, ok þá er Alfǫðr[3] settisk þar í hásæti, þá sá hann of alla heima ok hvers mannz athœfi ok vissi alla hluti, þá er hann sá. Kona hans hét Frigg Fjǫrgvinsdóttir, ok af þeira ætt er sú kynslóð komin, er vér kǫllum ása-ættir, er byggt hafa Ásgarð enn forna ok þau ríki, er þar liggja til, ok er þat[4] goðkunnig ætt. Ok fyrir því má hann heita Alfǫðr, at hann er faðir allra goðanna ok manna ok allz þess, er af honum ok hans krapti var fullgǫrt. Jǫrðin var dóttir hans ok kona hans; af henni gerði hann enn fyrsta soninn, en þat[5] er Ásaþórr; honum fylgði afl ok sterkleikr; þar af sigrar hann ǫll kvikvendi.

**9.** Nǫrfi eða Narfi hét jǫtunn, er byggði í Jǫtunheimum; hann átti dóttur, er Nótt hét; hon var svǫrt ok døkk, sem hon átti ætt til. Hon var gipt þeim manni, er Naglfari hét; þeira sonr hét Auðr[6]. Því næst var hon gipt þeim, er Ánarr hét; Jǫrð hét þeira dóttir. Síðarst átti hana Dellingr ok[7] var hann ása ættar; var þeira sonr Dagr; var hann ljóss ok fagr eptir faðerni sínu. Þá tók Alfǫðr Nótt ok Dag, son hennar, ok gaf þeim ii. hesta ok ii. kerrur, ok sendi[8] þau upp á himin, at þau skolu ríða á hverjum ii. dœgrum umhverfis jǫrðina. Ríðr Nótt fyrri þeim hesti, er kallaðr er Hrímfaxi, ok at morni hverjum døggvir hann jǫrðina af méldropum sínum. Sá hestr, er Dagr á, heitir Skinfaxi, ok lýsir alt lopt ok jǫrðina af faxi hans.

**10.** Þá mælti Gangleri: Hversu stýrir hann gang sólar eða[9] tungls? — Hárr segir: Sá maðr er nefndr Mundilfari, er átti tvau bǫrn; þau váru svá fǫgr ok fríð, at hann kallaði

---

[1] Sål. T; kallaz, W; kǫllum ver, R. [2] Sål. R, W, T. [3] Sål. U, T; Óðinn, R, W. [4] alt tf. R, W; mgl. U, T. [5] Sål. W, T; þar, R. [6] Sål. U, W, T; Uðr, R. [7] Sål. U, W, T; mgl. R. [8] Sål. W, T; setti, U, R. [9] Sål. W, T; ok, R.

son[1] sinn[1] Mána, en dóttur sína Sól, ok gipti hana þeim manni, er Glenr hét; en goðin reiddusk þessu ofdrambi ok tóku þau systkin ok settu upp á himin, létu Sól keyra þá hesta, er drógu kerru sólar[2] þeirar, er goðin hǫfðu skapat, til at lýsa heimana, af þeiri síu, er flaug ór Múspellzheimi; þeir hestar heita svá, Árvakr ok Alsviðr; en undir bógum hestanna settu goðin tvá vindbelgi at kœla þá, en í sumum frœðum er þat kallat ísarnkol. Máni stýrir gǫngu tungls ok ræðr nýjum ok niðum; hann tók ii. bǫrn af jǫrðunni, er svá heita, Bil ok Hjúki, er þau gengu frá brunni þeim, er Byrgir heitir, ok báru á ǫxlum sér sá, er heitir Sægr, en stǫngin Simul. Viðfinnr er nefndr faðir þeira. Þessi bǫrn fylgja Mána[3], sem sjá má af jǫrðu.

**11.** Þá mælti Gangleri: Skjótt ferr sólin, ok nær svá, sem hon sé hrædd, ok eigi myndi hon þá meirr hvata gǫngunni, at hon hræddisk bana sinn. — Þá svarar Hárr: Eigi er þat undarligt, at hon fari ákafliga; nær gengr sá, er hana sœkir; ok engan útveg á hon, nema renna undan. — Þá mælti Gangleri: Hverr er sá, er henni gerir þann ómaka? — Hárr segir: Þat eru ii. úlfar, ok heitir sá, er eptir henni ferr, Skoll; hann hræðisk hon ok hann mun taka hana, en sá heitir Hati Hróðvitnisson, er fyrir henni hleypr, ok vill hann taka tunglit, ok svá mun verða. — Þá mælti Gangleri: Hver er ætt úlfanna? — Hárr segir: Gýgr ein býr fyrir austan Miðgarð í þeim skógi, er Járnviðr heitir; í þeim skógi byggva þær trǫllkonur, er Járnviðjur heita. En gamla gýgr fœðir at sonum marga jǫtna ok alla í vargs líkjum, ok þaðan af eru komnir þessir úlfar. Ok svá er sagt, at af ættinni verðr sá einn mátkastr, er kallaðr er Mánagarmr; hann fyllisk með fjǫrvi allra þeira manna, er deyja, ok hann gleypir tungl, en[4] støkkvir blóði himin ok lopt ǫll; þaðan týnir sól skini

[1] Sål. W; annat, R, T. [2] Sål. U, T; med art. R, W. [3] svá tf. R, W. [4] Sål. U, W, T; ok, R.

sínu ok vindar eru þá ókyrrir ok gnýja heðan ok handan; svá segir í Vǫluspá:

12\. Austr býr en aldna
í Járnviði
ok fœðir þar
fenris kindir;
verðr af[1] þeim ǫllum
einna nǫkkurr
tungls tjúgari
í trolls hami.

13\. Fyllisk fjǫrvi
feigra manna;
rýðr ragna sjǫt
rauðum dreyra;
svǫrt verða sólskin,
of sumur eptir
veðr ǫll válynd.
Vituð ér enn eða hvat?

12\. Þá mælti Gangleri: Hver er leið til himins af jǫrðu? — Þá svarar Hárr ok hló við: Eigi er nú fróðliga spurt; er þér eigi sagt þat, er[2] goðin gerðu brú af jǫrðu til himins[3], er[4] heitir Bifrǫst?; hana muntu sét hafa; kann vera, at kallið[5] ér[5] regnboga. Hon er með iii. litum ok mjǫk sterk ok gǫr með list ok kunnáttu meiri en aðrar smíðir. En[6] svá sterk sem hon er[7], þá mun hon brotna, þá er Múspellz-megir fara ok ríða hana, ok svima hestar þeira yfir stórar ár; svá koma þeir framm. — Þá mælti Gangleri: Eigi þótti mér goðin gera af trúnaði[8] brúna, er hon skal brotna mega, er þau megu þó[9] gera, sem þau vilja. — Þá mælti Hárr: eigi eru goðin hallmælis verð af þessi smíð[10]; góð brú er Bifrǫst, en engi hlutr er sá í þessum heimi, er sér megi treystask, þá er Múspellz-sønir[11] herja.

13\. Þá mælti Gangleri: Hvat hafðisk Alfǫðr þá at, er gǫrr var Ásgarðr? — Hárr mælti: Í uphafi setti hann stjórnarmenn í sæti[12] ok beiddi þá at dœma með sér ørlǫg manna ok ráða um skipun borgarinnar; þat var þar, sem heitir Iðavǫllr í miðri borginni. Var þat et fyrsta þeira verk, at gera

[1] Sål. U, W; or, R, T. [2] Sål. U, W, T; at, R. [3] af j. til h., sål. U, W, T; omv. R. [4] Sål. U, W, T; ok, R. [5] Sål. T; þat kallir þú, R, W; þú kallir hana, U. [6] Sål. U, W, T; ok, R. [7] st.|s. h. er, sål. U, W, T; omv. R. [8] trausti, T. [9] Sål. U, T; mgl. W, R. [10] af — smíð, sål. W, U (at); af þessu smíði, T; fyrir þessa smíð, R. [11] megir, U. [12] í s., sål. U, W, T; mgl. R.

hof þat, er sæti þeira xii.[1] standa í ǫnnur en hásætit, þat er Alfǫðr á; þat hús er bezt gǫrt á jǫrðu ok mest; alt er þat útan ok innan svá sem gull eitt; í þeim stað kalla menn Glaðsheim[2]. Annan sal gerðu þeir; þat var hǫrgr, er gyðjurnar áttu, ok var hann allfagrt hús; hann[3] kalla menn Vingólf. Þar næst gerðu þeir hús[4], er[5] þeir lǫgðu afla í[5], ok þar til[6] gerðu þeir hamar ok tǫng ok steðja ok þaðan af ǫll tól ǫnnur; ok því næst smíðuðu þeir málm ok stein ok tré, ok svá gnógliga þann málm, er gull heitir, at ǫll bús-gǫgn ok ǫll reiðigǫgn[7] hǫfðu þeir af gulli, ok er sú ǫld kǫlluð gullaldr, áðr en spiltisk af tilkvámu kvinnanna; þær kómu ór Jǫtunheimum. Þar næst settusk goðin upp í sæti sín ok réttu dóma sína ok mintusk, hvaðan dvergar hǫfðu kviknat í moldunni ok niðri í jǫrðunni, svá sem maðkar í holdi. Dvergarnir hǫfðu skipazk fyrst ok tekit kviknun í holdi Ymis ok váru þá maðkar, en af atkvæði goðanna urðu þeir vitandi manvits ok hǫfðu mannz-líki ok búa þó í jǫrðu ok í steinum. Móðsognir var œztr[8] ok annarr Durinn; svá segir í Vǫluspá:

14. Þá gengu regin ǫll
á rǫkstóla,
ginnheilog goð,
ok of þat gættusk,
hverr[9] skyldi dverga
drótt of skepja
ór brimi blóðgu[10]
ok ór Bláins leggjum.

15. Þar manlíkun
mǫrg of gerðusk,
dvergar í jǫrðu,
sem Durinn sagði.

Ok þessi segir hon nǫfn þeira[11]:

16. Nýi ok[12] Niði,
Norðri, Suðri,
Austri, Vestri,
Alþjófr, Dvalinn,

---

[1] Her U, W; efter í, R, T. [2] Sål. W, T; Glað-, U, R. [3] allf.—hann: sål. T, W (þat f. hann); allgott hús ok fagrt hann, U; allfagr; þat hús, R. [4] Sål. U; þat, R, T. [5] Sål. U; at, R, T. [6] lǫgðu—til, mgl. T. [7] ok ǫ. r. sål. U (mgl. ǫll), W, T; mgl. R. [8] Sål. U, W, T; dvergr, R. [9] Sål. U, W; at, R, T. [10] Brimis blóði, T. [11] dverganna tf. R. [12] Sål W; mgl. de øvr.

Nár *ok*[1] Náinn,
Nípingr, Dáinn,
Bífurr, Bǫfurr,
Bǫmburr, Nóri,
Óri[2], Ónarr,
Óinn, Mjǫðvitnir[3],
Viggr ok Gandálfr,
Vindálfr, Þorinn,
Fili, Kíli,
Fundinn, Váli,
Þrór, Þróinn,
Þekkr, Litr ok[4] Vitr,
Nýr, Nýráðr,
Rekkr, Ráðsviðr.

En þessir eru ok dvergar ok búa í steinum, en enir fyrri í moldu:

17. Draupnir, Dolgþvari,
Hǫrr[5], Hugstari,
Hleðjólfr, Glóinn,
Dóri, Óri,
Dúfr, Andvari,
Heptifili
Hárr, Svíarr[6].

En þessir kómu frá Svarinshaugi til Aurvanga á Jǫruvǫllu, ok er þaðan kominn[7] Lovarr — þessi eru nǫfn þeira:

18. Skirfir, Virfir,
Skáfiðr, Ái,
Álfr, Yngvi,
Eikinskjaldi,
Falr, Frosti,
Fiðr, Ginnarr.

14. Þá mælti Gangleri: Hvar er hǫfuðstaðrinn eða helgistaðr[8] goðanna? — Hárr svarar: Þat er at aski Yggdrasils; þar skolu goðin eiga dóma sína hvern dag. — Þá mælti Gangleri: Hvat er at segja frá þeim stað? — Þá segir Jafnhárr: Askrinn er allra trjá mestr ok beztr; limar hans dreifask um[9] heim allan ok standa yfir himni; þrjár rœtr trésins halda því upp ok standa afar-breitt, ein er með ásum[10], ǫnnur með hrímþursum, þar sem forðum var Ginnungagap; en þriðja stendr yfir Niflheimi, ok undir þeiri rót er Hvergelmir, en Níðhǫggr gnagar neðan rótna. En undir þeiri rót, er til hrímþursa horfir, þar er Mímisbrunnr, er spekð ok

---

[1] Mgl. alle. [2] Orr, U; orinn, T; mgl. R. [3] Sål. alle, undt. R: moð-. [4] Sål. U, W; mgl. R, T. [5] Skr. haur, R, T, W. [6] Sål. W; Sniar, T; Siarr, R. [7] er—kominn, sål. W, U (þ. e. k.); eru komnir þ., R; eru þaðan ættir komnar, T. [8] Med art. R. [9] Sål. U, W; yfir, R, T. [10] en tf. R, W.

manvit er í fólgit, ok heitir sá Mímir, er á brunninn; hann er fullr af vísendum, fyrir því at hann drekkr ór brunninum af horninu Gjallarhorni. Þar kom Alfǫðr ok beiddisk eins drykkjar af brunninum, en hann fekk eigi, fyrr en hann lagði auga sitt at veði; svá segir í Vǫluspá:

19. Alt veitk, Óðinn,
hvar auga falt
í[1] þeim enum mæra
4 Mímis brunni;
drekkr mjǫð Mímir
morgin hverjan
af veði Valfǫðrs.
8 Vituð ér enn eða hvat?

Þriðja rót asksins stendr á himni ok undir þeiri rót er brunnr sá, er mjǫk er heilagr, er heitir Urðarbrunnr; þar eigu goðin dómstað sinn. Hvern dag ríða æsir þangat upp um Bifrǫst; hon heitir ok Ásbrú. Hestar ásanna heita svá: Sleipnir er baztr; hann á Óðinn; hann hefir viii. fœtr; annarr er Glaðr, iii. Gyllir, iiii. Glenr[2], v. Skeiðbrimir, vi. Silfrintopr[3], vii. Sinir, viii. Gísl, ix. Falhófnir, x. Gulltopr, xi.[4] Léttfeti[4]. Baldrs hestr var brendr með honum, en Þórr gengr til dómsins[5] ok veðr ár þær, er svá heita:

20. Kǫrmt ok Ǫrmt
ok Kerlaugar tvær —
3 þær skal Þórr vaða
dag hvern,
es hann dœma ferr[6]
6 at aski Yggdrasils,
þvít Ásbrú
brenn ǫll loga,
heilog vǫtn hlóa.

Þá mælti Gangleri: Brenn eldr yfir Bifrǫst? — Hárr segir: Þat, er þú sér rautt í boganum, er eldr brennandi; upp á himin mundu ganga[7] bergrisar, ef ǫllum væri fœrt á Bifrǫst, þeim er fara vilja. Margir staðir eru á himni fagrir, ok er þar alt guðlig vǫrn fyrir. Þar stendr salr einn fagr undir askinum við brunninn, ok ór þeim sal koma iii. meyjar, þær er svá heita, Urðr, Verðandi, Skuld; þessar meyjar skapa mǫnnum aldr; þær kǫllum vér nornir; en eru fleiri nornir,

[1] Sål. U, W, T; ur, R. [2] W, T; Glær, R. [3] Sål. W, T, jfr. Slin-, U; silfr-, R. [4] Omv. R. [5] doms. sins, R. [6] Sål. U, W, T; skal, R. [7] hrímþursar ok, tf. R.

þær er koma til hvers barns[1], er borit er, at skapa aldr, ok eru þessar goðkunnigar, en aðrar álfa-ættar, en enar þriðju dverga-ættar, svá sem hér segir:

21. Sundrbornar mjǫk
segi[2] ek[3] nornir vesa[4],
eigut þær ætt saman;
sumar eru áskungar[5],
sumar eru alfkungar[5],
sumar dœtr Dvalins.

Þá mælti Gangleri: Ef nornir ráða ørlǫgum manna, þá skipta þær geysi-ójafnt, er sumir hafa gott líf ok ríkuligt, en sumir hafa lítit lén eða lof, sumir langt líf, sumir skamt. — Hárr segir: Góðar nornir ok vel ættaðar skapa góðan aldr, en þeir menn, er fyrir óskǫpum verða, þá valda því illar nornir.

15. Þá mælti Gangleri: Hvat er fleira at segja stórmerkja frá askinum? — Hárr segir: Mart er þar af at segja. Ǫrn einn sitr í limum asksins, ok er hann margs vitandi, en í milli augna honum sitr haukr sá, er heitir Veðrfǫlnir. Íkorni sá, er heitir Ratatoskr, renn upp ok niðr eptir askinum ok berr ǫfundar-orð milli arnarins ok Níðhǫggs, en iiii. hirtir renna í limum asksins ok bíta barr; þeir heita svá, Dáinn, Dvalinn, Duneyrr, Duraþrór. En svá margir ormar eru í Hvergelmi með Níðhǫgg, at engi tunga má telja; svá segir hér:

22. Askr Yggdrasils
drýgir erfiði
meira an menn viti;
hjǫrtr bítr ofan,
en á hliðu fúnar,
skerðir Níðhǫggr neðan.

Svá er enn[6] sagt:

23. Ormar fleiri
liggja und aski Yggdrasils
en þat of hyggi hverr
[ósviðra apa[7]]
Góinn ok Móinn,
þeir ro Grafvitnis synir,
Grábakr ok Grafvǫlluðr;
Ófnir ok Sváfnir
hygg ek at æ myni
meiðs kvistum[8] má.

[1] Sål. U, W, T; manz, R (og så borinn). [2] Sål. W; hygg, U, R, T. [3] at tf. W, R, T. [4] Sål. U; sé, de øvr. [5] Sål. W, T; -kunnar, R; -kyndar, U. [6] Sål. W, U; mgl. R, T. [7] afa, R, W. [8] Sål. (dativ) alle.

Enn er þat sagt, at nornir þær, er byggva við[1] Urðarbrunn, taka hvern dag vatn í brunninum ok með[2] aurinn þann, er liggr um brunninn, ok ausa upp yfir askinn, til þess at eigi[1] skolu[3] limar hans tréna eða fúna, en þat vatn er svá heilagt, at allir hlutir, þeir er[4] þar koma í brunninn, verða svá hvítir sem hinna sú, er skjall heitir, er innan liggr við eggskurn, svá sem hér segir:

24. Ask veitk ausinn,
heitir Yggdrasill[5],
hǫr baðmr heilagr
hvíta-auri;
þaðan koma dǫggvar,
þærs[6] í dala[7] falla;
stendr[8] æ yfir grœnn
Urðarbrunni.

Sú dǫgg, er þaðan af fellr á jǫrðina, þat kalla menn hunangfall[9], ok þar af fœðask býflugur. Fuglar ii. fœðask í Urðarbrunni; þeir heita svanir, ok af þeim fuglum hefir komit þat fugla-kyn, er svá heitir.

**16.** Þá mælti Gangleri: Mikil tíðendi kant þú at segja af himninum[10]. Hvat er þar fleira hǫfuðstaða en at Urðarbrunni? — Hárr segir: Margir staðir eru þar gǫfugligir. Sá er einn staðr þar, er kallaðr er Álfheimr; þar byggvir fólk þat, er Ljósálfar heita, en Døkkálfar búa niðri í jǫrðu, ok eru þeir ólíkir[11] sýnum ok[12] miklu ólíkari reyndum. Ljósálfar eru fegri en sól sýnum, en Døkkálfar eru svartari en bik. Þar er enn[13] sá staðr, er Breiðablik er kallat, ok engi er þar fegri staðr. Þar er ok sá, er Glitnir heitir, ok eru veggir hans ok steðr allar[14] ok stólpar af rauðu gulli, en þak hans af silfri. Þar er enn sá staðr, er Himinbjǫrg heita; sá stendr á himins-enda við brúar-sporð, þar er Bifrǫst kømr til himins. Þar er enn mikill staðr, er Valaskjálf heitir; þann stað á Óðinn; þann gerðu goðin ok þǫkðu skíru silfri,

---

[1] Sål. U, W, T; mgl. R. [2] við T. [3] Sål. U, W, T; skyli, R. [4] Sål. U, W, T; sem, R. [5] Sål. U, W, T; -ils, R. [6] Sål. W; þær, U; er, R, T. [7] Sål. T; dali, de øvr. [8] hann tf. R, T. [9] Sål. R, W, T; -angs-, U. [10] Sål. W, T; himnum, R; honom (?), U. [11] þeim tf. R, W (mgl. U, T), men þeir går både på Lj. og D. [12] Sål. U, W, T; en, R. [13] Sål. W, T; ok, U; einn, R. [14] Sål. U, W, T; mgl. R.

ok þar er Hliðskjálfin í þessum sal, þat hásæti, er svá heitir; ok þá er Alfǫðr sitr í því sæti, þá sér hann of alla[1] heima[1]. Á sunnanverðum himins-enda er sá salr, er allra er fegrstr, ok bjartari en sólin, er Gimlé heitir; hann skal standa, þá er bæði himin ok jǫrð hefir farizk, ok byggva þann stað góðir menn ok réttlátir of allar aldir; svá segir í Vǫluspá:

25. Sal veitk standa
sólu fegra,
golli þakðan[2]
á Gimlé
þar[3] skolu dyggvar
dróttir byggva
ok of aldrdaga
ynðis njóta.

Þá mælti Gangleri: Hvat gætir þess staðar, þá er Surtalogi brennir himin ok jǫrð? — Hárr segir: Svá er sagt, at annarr himinn sé suðr ok upp frá þessum[4], ok heitir sá[5] Andlangr, en enn iii. himinn sé enn upp frá þeim, ok heitir sá Víðbláinn; ok á þeim himni hyggjum vér þenna stað vera, en Ljósálfar einir hyggjum vér at nú byggvi þá staði.

**17.** Þá mælti Gangleri: Hvaðan kømr vindr?; hann er sterkr, svá at hann hrœrir stór hǫf, ok hann œsir eld, en svá sterkr sem hann er, þá má eigi sjá hann; því er hann undarliga skapaðr. — Þá segir Hárr: Þat kann ek vel segja þér. Á norðanverðum himins-enda sitr jǫtunn sá, er Hræsvelgr heitir; hann hefir arnar-ham, en er hann beinir flug, þá stendr[6] vindr[6] undan vængjum hans[7], sem hér segir[8]:

26. Hræsvelgr heitir,
es sitr á himins enda,
jǫtunn í arnar ham;
af hans vængjum
kveða vind koma
alla menn yfir.

**18.** Þá mælti Gangleri: Hví skilr svá mikit, at sumar skal vera heitt, en vetr kaldr? — Hárr segir: Eigi myndi svá fróðr maðr spyrja, þvíat þetta vitu allir at segja, en ef þú

---

[1] Sål. W, T; allan heim, R, U (omv.). [2] Sål. U, W; betra, R, T. [3] þann, W, T. [4] himni tf. R, T; mgl. W, U. [5] himinn tf. R; mgl. W, T. [6] Sål. U, T; standa vindar, R, W. [7] Sål. U, W, T; honum, R. [8] sem—segir, sål. U, W; hér segir svá, R; svá s. h., T.

einn[1] ert[1] orðinn svá fávíss, at eigi hefir þetta heyrt, þá vil ek þó þat vel virða, at heldr spyrir þú eitt sinn ófróðliga, en þú gangir lengr duliðr þess, er skylt er at vita. Svásuðr heitir sá, er faðir Sumars er, ok er hann sællífr, svá at af hans heiti er þat kallat svásligt, er blítt er; en faðir Vetrar er ýmist kallaðr Vindljóni[2] eða Vindsvalr; hann er Vásaðar sonr, ok váru þeir áttungar grimmir ok svalbrjóstaðir, ok hefir Vetr þeira skaplyndi.

19. Þá mælti Gangleri: hverir eru æsir, þeir er mǫnnum er skylt at trúa á[3]? — Hárr svarar: Tólf eru æsir goðkunnigir. — Þá mælti Jafnhárr: Eigi eru ásynjurnar óhelgari ok eigi megu þær minna. — Þá mælti Þriði: Óðinn er œztr ok elztr ásanna; hann ræðr ǫllum hlutum; ok svá sem ǫnnur goðin eru máttug, þá þjóna honum ǫll svá sem bǫrn fǫður, en Frigg er kona hans, ok veit hon ǫll[4] ørlǫg manna, þótt hon segi eigi spár, svá sem hér er sagt, at Óðinn mælti sjálfr við þann ás, er Loki heitir:

27. Œrr ertu nú[5] Loki
ok ørviti,
hví né lezkaþu[6] Loptr[7];
ørlǫg Frigg
hygg ek at ǫll viti,
þótt hon sjálfgi segi.

Óðinn heitir Alfǫðr, þvíat hann er faðir allra goða; hann heitir ok Valfǫðr, þvíat hans óska-sønir eru allir þeir, er í val falla; þeim skipar hann Valhǫll ok Vingólf, ok heita þeir þá Einherjar. Hann heitir ok Hangaguð ok Haptaguð, Farmaguð, ok enn hefir hann nefnzk á fleiri vega, þá er hann var kominn til Geirrøðar konungs:

28. Hétumk Grímr
ok Gangleri[8],
Herjann, Hjálmberi,
Þekkr, Þriði,
Þuðr, Uðr,
Helblindi, Hárr,
Saðr, Svipall,
Sanngetall,
Herteitr, Hnikarr,
Bileygr, Báleygr,

---

[1] Sål. W, T; omv. R. [2] -liomi, T; -lion, W; -loni, R. [3] Sål. U, W, T; mgl. R. [4] Sål. W, T; mgl. R, U. [5] Sål. U, W; mgl. R, T. [6] Sål. W; legska-, R, T. [7] Sål. U, T; Loki, R; mgl. W. [8] Gangari, R.

Bǫlverkr, Fjǫlnir,
12 Grímnir, Glapsviðr, Fjǫlsviðr,
Síðhǫttr, Siðskeggr,
Sigfǫðr, Hnikuðr,
Alfǫðr, Atríðr, Farmatýr,
16 Óski, Ómi,
Jafnhárr, Biflindi,
Gǫndlir, Hárbarðr,
Sviðurr, Sviðrir,
20 Jálkr, Kjalarr, Viðurr,
Þrór, Yggr, Þundr,
Vakr, Skilfingr,
Váfuðr, Hroptatýr,
24 Gautr[1], Veratýr[2].

Þá mælti Gangleri: Geysi-mǫrg heiti hafi þér gefit honum, ok þat veit trúa mín, at þat[3] mun vera mikill fróðleikr, sá er hér[4] kann skyn ok dœmi, hverir atburðir hafa orðit sér til hvers þessa nafns. — Þá svarar Hárr: Mikil skynsemi er at rifja þat[5] vandliga upp[6], en þó er þér þat skjótast at segja, at flest heiti hafa verit gefin af þeim atburð[7], at svá margar sem eru greinir tungnanna í verǫldunni, þá þykkjask allar þjóðir þurfa at breyta nafni hans til sinnar tungu til ákallz ok bœna fyrir sjálfum sér, en sumir atburðir til þessa heita hafa gǫrzk í ferðum hans, ok er þat fœrt í frásagnir, ok muntu eigi mega fróðr maðr heita, ef þú skalt eigi kunna segja frá þeim stórtíðendum.

**20.** Þá mælti Gangleri: Hver eru nǫfn annarra ásanna, eða hvat skolu þeir at hafask[8], eða hvat hafa þeir gǫrt til frama? — Hárr segir: Þórr er þeira framast, sá er kallaðr er[9] Ásaþórr eða Ǫkuþórr; hann er sterkastr allra goðanna ok manna. Hann á þar ríki, er Þrúðvangar heita, en hǫll hans heitir Bilskirnir; í þeim sal eru v. hundruð gólfa ok fjórir tigir; þat er hús mest, svá at menn viti[10]; svá segir í Grímnismálum:

---

[1] Her tf. T, U: Jalkr. [2] Det er usikkert, hvorvidt remsen bör opfattes som verslinier. [3] Sål. U, T; þetta, W, R. [4] hann, T. [5] Her U, W; þau (her), T; efter vandl. R. [6] Sål. U, W, T; mgl. R. [7] Sål. W, T; -burðr, R (ditt.); -burðum, U. [8] skolu—hafask, sål. W, T; hafaz þeir at, R; mgl. U. [9] Sål. U, W, T; mgl. R. [10] Sål. U, T; hafa (-i W) gert, R, W.

29. Fimm hundruð golfa
ok umb[1] fjórum tøgum,
svá hygg ek Bilskirni með bugum[2];
ranna þeira,
es ek rept vita,
míns veitk mest magar.

Þórr á hafra ii, er svá heita, Tanngnjóstr ok Tanngrisnir, ok reið, þá er hann ekr, en hafrarnir draga reiðna; því er hann kallaðr Ǫkuþórr. Hann á ok iii. kostgripi; einn[3] er hamarrinn Mjǫllnir, er hrímþursar ok bergrisar kenna, þá er hann kømr á lopt[4], ok er þat eigi undarligt; hann hefir lamit margan haus á feðrum eða frændum þeira. Annan grip á hann beztan, megingjarðar, ok er hann spennir þeim um sik, þá vex honum ásmegin hálfu. Enn iii. hlut á hann, þann er mikill gripr er í; þat eru járnglófar[5]; þeira má hann eigi missa við hamars-skaptit. En engi er svá fróðr, at telja kunni ǫll stórvirki hans, en segja kann ek þér svá mǫrg tíðendi frá honum, at dveljask munu stundirnar, áðr en sagt er alt, þat er ek veit.

**21.** Þá mælti Gangleri: Spyrja vil ek[6] tíðenda af fleirum ásunum. — Hárr segir: Annarr sonr Óðins er Baldr, ok er frá honum gott at segja; hann er beztr ok hann lofa allir; hann er svá fagr álitum ok bjartr[6], at lýsir af honum, ok eitt gras er svá hvítt, at jafnat er til Baldrs brár; þat er allra grasa hvítast, ok þar eptir mátþú marka fegrð[7] hans[7], bæði á[8] hár ok á líki; hann er vitrastr ásanna ok fegrst talaðr[9] ok líknsamastr, en sú náttúra fylgir honum, at engi má haldask[10] dómr hans. Hann býr þar sem heitir Breiðablik; þat er á himni; í þeim stað má ekki vera óhreint, svá sem hér segir:

30. Breiðablik heita,
þar es Baldr hefir
sér of gǫrva sali,
á[11] því landi,
es ek liggja veit
fæsta feiknstafi.

---

[1] um, R, W, T. [2] bogum, U. [3] þeira tf. R (f. einn þ. har T: sem). [4] á lopt, sål. U, W, T; mgl. R. [5] -greipr, U. [6] svá tf. R, T. [7] Sål. U, W, T; omv. R. [8] Sål. U, W, T; mgl. R. [9] taliðr, R. [10] Sål. R, U, T; hallaz, W (fejlskr.). [11] í, R.

**22.** Enn þriði áss er sá, er kallaðr er Njǫrðr; hann býr á himni, þar sem heitir Nóatún; hann ræðr fyr gǫngu vindz ok stillir sjá ok eld; á hann skal heita til sæfara ok til veiða; hann er svá auðigr ok fésæll, at hann má gefa þeim auð landa eða lausa-fjár; á hann skal til þess heita[1]. Eigi er Njǫrðr ása ættar[2]; hann var upp fœddr í Vanaheimi[3], en vanir gísluðu hann goðunum ok tóku í mót at[4] gíslingu þann, er Hœnir heitir; hann varð at sætt með goðum[5] ok vǫnum. Njǫrðr á þá konu, er Skaði heitir, dóttir Þjaza jǫtuns. Skaði vill hafa bústað þann, er átt hafði faðir hennar; þat er á fjǫllum nǫkkurum, þar sem heitir Þrymheimr[6], en Njǫrðr vill vera nær sæ; þau sættusk á þat, at þau skyldu vera ix. nætr í Þrymheimi[6], en þá aðrar ix.[7] at Nóatúnum. En er Njǫrðr kom aptr til Nóatúna af fjallinu, þá kvað hann þetta:

31. Leið erumk fjǫll,
vaska lengi á[8],
nætr einar níu;
ulfa þytr
mér þótti illr vesa
hjá sǫngvi svana.

Þá kvað Skaði þetta:

32. Sofa ek né[9] máttak
sævar beðjum á
fogls jarmi fyrir;
sá mik vekr,
es af víði kømr,
morgin hverjan mǫ́r.

Þá fór Skaði upp á fjall[10] ok byggði í Þrymheimi[11], ok ferr hon mjǫk á skíðum ok með boga ok skýtr dýr; hon heitir ǫndurgoð eða ǫndurdís; svá er sagt:

33. Þrymheimr[11] heitir,
es Þjazi bjó,
sá enn ámátki jǫtunn,
en nú Skaði byggvir,
skír brúðr goða,
fornar toptir fǫður.

---

[1] á—heita, sål. U, W, T; er á h. heita t. þ., R. [2] Eigi—ættar, sål. U, W, T (mgl. ása); mgl. R. [3] Sål. U, W, T; -heimum, R. [4] ása tf. R. [5] goðunum, R. [6] Sål. T, W; þrum-, R; þruþ- (!), U. [7] iij., W, U. [8] Sål. W, T; hjá, U; mgl. R. [9] Sål. W; mgl. de øvr.; matka skr. T. [10] Sål. U, W, T; fiallit, R. [11] Sål. R, W, T; þruþ-, U.

**23.** Njǫrðr í Nóatúnum gat síðan ii. bǫrn; hét annat[1] Freyr, en dóttir Freyja; þau váru fǫgr álitum ok máttug. Freyr er enn ágætasti af ásum; hann ræðr fyrir regni ok skini sólar ok þar með ávexti jarðar, ok á hann er gott at heita til árs ok friðar; hann ræðr ok fésælu manna. En Freyja er ágætust af ásynjum; hon á þann bœ á himni, er Folkvangr[2] heitir, ok hvar sem hon ríðr til vígs, þá á hon hálfan val, en hálfan Óðinn; svá er[3] hér sagt[3]:

34. Folkvangr heitir,
en þar Freyja ræðr
sessa kostum í sal;
halfan val
hon kýss[4] hverjan dag,
en halfan Óðinn á.

Salr hennar Sessrúmnir[5], hann er mikill ok fagr; en er hon ferr, þá ekr hon á[6] kǫttum sínum[7] ok sitr í reið; hon er nákvæmust mǫnnum til á at[8] heita, ok af hennar nafni er þat tignar[9]-nafn, er ríkis-konur eru kallaðar fróvur; henni líkaði vel mansǫngr; á hana er gott at heita til ásta.

**24.** Þá mælti Gangleri: Miklir þykkja mér þessir fyrir sér æsirnir, ok eigi er undarligt, at mikill kraptr fylgi yðr, er þér skoluð kunna skyn goðanna ok vita, hvert biðja skal hverrar bœnarinnar; eða eru fleiri enn goðin? — Hárr segir: Sá er enn áss, er Týr heitir; hann er djarfastr ok bezt hugaðr ok hann ræðr mjǫk sigri í orrostum; á hann er gott at heita hreystimǫnnum. Þat er orðtak, at sá er tý-hraustr, er um fram er aðra menn ok ekki sésk fyrir. Hann er[10] ok[11] vitr, svá at þat er ok[11] mælt, at sá er týspakr, er vitrastr[12] er. Þat er eitt mark um djarfleik hans, þá er æsir lokkuðu Fenrisúlf til þess at leggja fjǫturinn á hann, Gleipni, þá trúði hann þeim eigi, at þeir mundu leysa hann, fyrr en þeir lǫgðu honum at veði hǫnd Týs í munn hans[13]; en þá

[1] Sål. U, W, T; sonr, R. [2] Sål. W, jfr. -vang, U; -vangar, R, T (heita). [3] Sål. W, T; sem . . . segir, R. [4] á tf. R. [5] Sål. W, T; -rýmnir, R. [6] Sål. U, T; mgl. R, W. [7] Sål. U, T; ii., R, W. [8] Sål. R; mgl. de øvr. [9] Sål. U, W, T; mgl. R. [10] Sål. W; jfr. U; var, R, T. [11] Mgl. R. [12] Sål. W, T; vitr, R. [13] Sål. U, W, T; ulfsins, R.

er æsir vildu eigi leysa hann; þá beit hann hǫndina af, þar er nú heitir úlfliðr, ok er hann einhendr ok ekki kallaðr sættir manna.

**25**. Bragi heitir einn; hann er ágætr at speki ok mest at málsnild ok orðfimi; hann kann mest af skáldskap, ok af honum er bragr kallaðr skáldskapr, ok af hans nafni er sá kallaðr bragr karla eða bragr[1] kvinna, er orðsnild hefir framarr en aðrir, kona eða karlmaðr. Kona hans er Iðunn; hon varðveitir í eski sínu epli þau, er goðin skolu á bíta, þá er þau eldask, ok verða þá allir ungir, ok svá mun vera alt til ragna-røkrs. — Þá mælti Gangleri: Allmikit þykki mér goðin eiga undir gæzlu eða trúnaði Iðunnar. — Þá mælti Hárr ok hló við: Nær lagði þat ófœru einu sinni; kunna mun ek þar af at segja, en þú skalt nú fyrst heyra fleiri[2] nǫfn ásanna.

**26**. Heimdallr heitir einn; hann er kallaðr hvíti-áss; hann er mikill ok heilagr; hann báru at søni meyjar níu ok allar systr; hann heitir ok Hallinskíði ok Gullintanni; tennr hans váru af gulli; hestr hans heitir Gulltopr. Hann býr þar er heita[3] Himinbjǫrg við Bifrǫst; hann er vǫrðr goða ok sitr þar við himins-enda at gæta brúarinnar fyrir bergrisum; hann[4] þarf[4] minna svefn en fugl; hann sér jafnt nótt sem dag hundrað rasta frá sér; hann heyrir ok þat, er gras vex á jǫrðu eða ull á sauðum ok alt þat, er hæra lætr; hann hefir lúðr þann, er Gjallarhorn heitir, ok heyrir blástr hans í alla heima. Heimdalar sverð er kallat hǫfuð mannz[5]. Hér er svá sagt:

35. Himinbjǫrg heita,
en þar Heimdall kveða
valda véum,
þar vǫrðr goða
drekkr í væru ranni
glaðr enn góða mjǫð.

Ok enn segir hann sjálfr í Heimdalargaldri:

---

[1] Sål. W, T; mgl. R, U. [2] Sål. U, W, T; efter ásanna, R. [3] Sål. W, T; heitir, U, R. [4] Sål. U, W, T; omv. R. [5] Sål. T; mgl. W, R.

36. Níu emk mœðra mǫgr,
níu emk systra sonr.

27. Hǫðr heitir einn ássinn; hann er blindr; œrit er hann sterkr[1], en vilja mundu goðin, at þenna ás þyrfti eigi at nefna, þvíat hans handa-verk munu lengi vera hǫfð at minnum með goðum ok mǫnnum.

28. Víðarr heitir einn, enn þǫgli áss; hann hefir skó þjokkvan; hann er sterkr næst því sem Þórr[2]; af honum hafa goðin mikit traust í allar þrautir.

29. Áli eða Váli heitir einn, sonr Óðins ok Rindar, hann er djarfr í orrostum ok mjǫk happskeytr.

30. Ullr heitir einn, sonr Sifjar, stjúpsonr Þórs; hann er bogmaðr svá góðr, ok skíðfœrr svá, at engi má við hann keppask; hann er ok fagr álitum ok hefir hermannz atgørvi; á hann er[3] gott at heita í einvígi.

31. Forseti heitir sonr Baldrs ok Nǫnnu Nepsdóttur; hann á þann sal á himni, er Glitnir heitir, en allir, er til hans koma með sakar-vendræði[4], þá fara allir sáttir á braut; sá er dómstaðr beztr með goðum ok mǫnnum; svá segir hér:

37. Glitnir heitir salr,
hann es golli studdr
ok silfri þakðr et sama,
en þar Forseti
byggvir flestan dag
ok svæfir allar sakar.

32. Sá er enn talðr með ásum, er sumir kalla rógbera ásanna ok frumkveða[5] flærðanna ok vamm[6] allra goða ok manna; sá er nefndr Loki eða Loptr, sonr Fárbauta jǫtuns; móðir hans heitir[7] Laufey eða Nál; brœðr hans eru þeir Býleistr ok Helblindi. Loki er fríðr ok fagr sýnum, illr í skaplyndi, mjǫk fjǫlbreytinn at háttum; hann hafði þá speki um framm aðra menn, er slœgð heitir, ok vélar til allra hluta; hann kom ásum jafnan í fult vendræði[4], ok opt leysti hann

---

[1] Sål. U, W, T; styrkr, R. [2] er tt. R. [3] ok tf. R; mgl. U, W, T. [4] Sål. U; vand-, de øvr. (kvæði T). [5] -kveðil, T. [6] Sål. U; vǫmm, W, R; ouin, T. [7] Sål. U, W, T; er, R.

þá með vélræðum. Kona hans heitir Sigyn; sonr þeira Nari eða Narfi.

**33.** Enn átti Loki fleiri bǫrn. Angrboða hét gýgr í Jǫtunheimum; við henni gat Loki iii. bǫrn; eitt var Fenrisúlfr, annat Jǫrmungandr — þat er Miðgarðzormr —, iii. er Hel. En er goðin vissu til, at þessi iii. systkin fœddusk upp í Jǫtunheimum ok goðin rǫkðu til spádóma, at af þessum[1] systkinum[1] myndi þeim mikit[2] óhapp standa, ok þótti ǫllum[3] illz af væni, fyrst af móðerni ok enn verra af faðerni. Þá sendi Alfǫðr til goðin at taka bǫrnin ok fœra sér. Ok er þau kómu til hans, þá kastaði hann orminum í enn djúpa sæ, er liggr um lǫnd[1] ǫll[1], ok óx sá ormr svá, at hann liggr í miðju hafinu of lǫnd[1] ǫll[1] ok bítr í sporð sér. Hel kastaði hann í Niflheim ok gaf henni vald yfir ix. heimum, at hon skyldi[4] skipta[4] ǫllum vistum með þeim, er til hennar váru sendir, en þat eru sóttdauðir menn ok ellidauðir. Hon á þar mikla bólstaði ok eru garðar hennar forkunnar-hávir ok grindr stórar. Éljúðnir heitir salr hennar, hungr diskr hennar, sultr knífr hennar, Ganglati þræll[5], Ganglǫt ambátt, Fallanda-forað[6] þreskǫldr[7], er inn gengr, Kǫr sæing, Blíkjanda-bǫl ársali hennar. Hon er blá hálf, en hálf með hǫrundar-lit; því er hon auðkend ok heldr gnúpleit ok grimmlig. Úlfinn fœddu æsir heima, ok hafði Týr einn djarfleik at[8] ganga til, at[8] gefa honum mat. En er goðin sá, hversu mikit hann óx hvern dag, ok allar spár sǫgðu, at hann myndi vera lagðr til skaða þeim, þá fengu æsirnir[9] þat ráð, at þeir gerðu fjǫtur allsterkan, er þeir kǫlluðu Lœðing, ok báru hann til úlfsins ok báðu hann reyna afl sitt við fjǫturinn, en úlfinum þótti sér þat ekki ofrefli ok lét þá fara með, sem þeir vildu. En[10] et fyrsta sinn, er úlfrinn spyrndi við,

---

[1] Omv. R. [2] mein ok tf. R. [3] mikils tf. R. [4] Sål. U, W, T; skipti, R. [5] Med art. R, T. [6] grind, þolmóðnir tf. U, mulig rigtig (dog passer dette ikke til Sn. E. II, 494). [7] hennar tf. R, T. [8] til at ganga (at g. mgl. T); at úlfnum ok tf. R. [9] Sål. U, T; uden art. R, W. [10] Mgl. R.

brotnaði sá fjǫturr; svá leystisk hann ór Lœðingi[1]. Því næst gerðu æsirnir annan fjǫtur hálfu sterkara, er þeir kǫlluðu Dróma, ok báðu enn úlfinn reyna þann fjǫtur ok tǫlðu hann verða mundu ágætan mjǫk af[2] afli, ef slík stórsmíði mætti eigi halda honum; en úlfrinn hugsaði, at þessi fjǫturr var sterkr mjǫk, ok þat með, at honum hafði afl vaxit síðan er hann braut Lœðing[1] — kom þat í hug, at hann myndi verða at leggja sik í hættu, ef hann skyldi frægr verða, ok lét leggja á sik fjǫturinn. Ok er æsir tǫlðusk búnir, þá hristi úlfrinn sik[3] ok laust fjǫtrinum á jǫrðina ok[4] knúðisk fast at, spyrnði við, braut fjǫturinn[4], svá at fjarri[5] flugu brotin; svá drap hann sik ór Dróma. Þat er síðan haft fyrir orðtak, at »leysi ór Lœðingi[1]« eða »drepi ór Dróma«, þá er einn hverr hlutr er ákafliga sóttr. Eptir þat óttuðusk æsirnir, at þeir myndi eigi fá bundit úlfinn. Þá sendi Alfǫðr[6] þann, er Skírnir er nefndr, sendimaðr Freys, ofan í Svartálfaheim til dverga nǫkkurra ok lét gera fjǫtur þann, er Gleipnir heitir; hann var gǫrr af vi.[7] hlutum, af dyn kattarins ok af skeggi konunnar ok af rótum bjargsins ok af sinum bjarnarins ok af anda fisksins ok af fogls hráka — ok þóttú vitir eigi áðr þessi tíðendi, þá máttu nú finna skjótt hér sǫnn dœmi, at eigi er logit at þér; sét munt þú hafa[8], at konan hefir ekki skegg ok engi dynr verðr af hlaupi kattarins, ok eigi eru rœtr undir bjarginu, ok þat veit trúa mín, at jafnsatt er þat alt, er ek hefi sagt þér, þótt þeir sé sumir hlutir, er þú mátt eigi reyna. — Þá mælti Gangleri: Þetta má ek at vísu skilja at satt er; þessa hluti má ek sjá, er þú hefir nú til dœma tekit, en hvernig varð fjǫturrinn smíðaðr? — Hárr segir: Þat kann ek þér vel segja. Fjǫturrinn varð sléttr ok blautr sem silkiræma, en svá traustr ok sterkr, sem nú skaltu heyra. Þá er fjǫturrinn var fœrðr ásunum, þǫkkuðu þeir vel sendi-

[1] Skr. lð- i T. [2] Sål. U, W, T; at, R. [3] spyrnir við tf. R i marginen. [4] ok—fjǫturinn, sål. W (dog spyrnir), T, U (dog spyrnir og at fast f. við) mgl. R. [5] færri, R. [6] Her tf. R intet. [7] v., R, T. [8] Mgl. R.

manni sitt ørendi. Þá fóru æsirnir út í vatn þat, er Ámsvartnir heitir í hólm þann, er Lyngvi er kallaðr, ok kǫlluðu með sér úlfinn, sýndu honum silkibandit ok báðu hann slíta ok kváðu vera nǫkkuru traustara, en líkendi þœtti á fyrir digrleiks sakar, ok seldi hverr ǫðrum ok treysti með handafli[1], ok slitnaði eigi, en þó kváðu þeir úlfinn slíta mundu. Þá svarar úlfrinn: svá lízk mér á þenna dregil, sem enga frægð munak[2] af hljóta, þótt ek slíta í sundr svá mjótt band, en ef þat er gǫrt með list ok vél, þótt þat sýnisk lítit, þá kømr þat band eigi á mína fœtr. Þá sǫgðu æsirnir, at hann myndi skjótt sundr slíta mjótt silkiband, er hann hafði fyrr brotit stóra járnfjǫtra — en ef þú fær eigi þetta band slitit, þá muntu ekki hræða mega goðin[3], skolum vér[4] þá leysa þik. Úlfrinn segir: ef ér[5] bindið mik, svá at ek fæk eigi leyst mik, þá skollið[6] þér svá[6], at mér mun seint verða at taka af yðr hjálp; ófúss em ek at láta þetta band á mik leggja; en heldr en þér frýið mér hugar, þá leggi einn hverr yðarr[7] hǫnd sína í munn mér at veði, at þetta sé falslaust gǫrt. En hverr ásanna sá til annars ok þótti nú vera tvau vendræði[8] ok vildi engi sína hǫnd framm selja, fyrr en Týr lét framm hœgri[9] hǫnd sína ok leggr í munn úlfinum. En er úlfrinn spyrnir, þá harðnaði bandit, ok því harðara, er hann brauzk um, því skarpara var bandit. Þá hlógu allir nema Týr; hann lét hǫnd sína. Þá er æsirnir sá, at úlfrinn var bundinn at fullu, þá tóku þeir festina, er ór var fjǫtrinum, er Gelgja heitir, ok drógu hana gǫgnum hellu mikla — sú heitir Gjǫll — ok festu helluna langt í jǫrð niðr; þá tóku þeir mikinn stein ok skutu enn lengra í jǫrðina — sá heitir Þviti — ok hǫfðu þann stein fyrir festar-hælinn. Úlfr-

---

[1] Sål. U, W, T; handa afli, R. [2] munc eg, T. [3] enda tf. R. [4] mega tf. T, W (men her overstreget). [5] Sål. T; þer, de øvr. [6] Mgl. T og at (mun mér); monu þér svá ætla, W; skil ek, U. [7] Sål. U, W, T; mgl. R. [8] Sål. U; vand-, de øvr. [9] Sål. U, W, T; efter sína, R.

inn gapði ákafliga ok feksk um mjǫk ok vildi bíta þá; þeir skutu í munn honum sverði nǫkkuru; nema hjǫltin við neðra gómi, en øfra gómi blóðrefillinn[1]; þat er gómsparri hans. Hann grenjar illiliga ok slefa renn ór munni hans; þat er á sú, er Ván heitir; þar liggr hann til ragna-røkrs. — Þá mælti Gangleri: Furðu illa barna eign gat Loki, en ǫll þessi systkin eru mikil fyrir sér — en fyrir hví drápu æsir eigi úlfinn, er[2] þeim er illz af honum ván[3]? — Hárr svarar: Svá mikils virðu goðin vé sín ok griða-staði, at eigi vildu þau saurga þá með blóði úlfsins, þótt svá segi spárnar, at hann myni verða at bana Óðni.

**34.** Þá mælti Gangleri: Hverjar eru ásynjurnar? — Hárr segir: Frigg er œzt; hon á þann bœ, er Fensalir heita, ok er hann allvegligr. Ǫnnur er Sága; hon býr á Søkkvabekk, ok er þat mikill staðr. Iii. er Eir — hon er læknir beztr. Iiii. er Gefjun — hon er mær, ok henni þjóna þær, er meyjar andask. V. er Fulla — hon er enn mær ok ferr laushár ok gullband um hǫfuð; hon berr eski Friggjar ok gætir skóklæða hennar ok veit launráð með henni. Vi.[5] Freyja er tígnust með Frigg; hon giptisk þeim manni, er Óðr heitir; dóttir þeira er[4] Hnoss; hon er svá fǫgr, at af hennar nafni eru hnossir kallaðar, þat er fagrt er ok gørsimligt. Óðr fór í braut langar leiðir, en Freyja grætr eptir, en tár hennar er gull rautt. Freyja á mǫrg nǫfn, en sú er sǫk til þess, at hon gaf sér ýmis heiti, er hon fór með ókunnum þjóðum at leita Óðs; hon heitir Mardǫll ok Hǫrn, Gefn, Sýr. Freyja átti Brísingamen. Hon er ok[5] kǫlluð Vanadís. Vii. Sjǫfn — hon gætir mjǫk til at snúa hugum manna til ásta, kvinna ok karla, ok[5] af hennar nafni er elskhuginn kallaðr sjafni. Viii. Lofn — hon er svá mild ok góð til áheita, at hon fær leyfi af Alfǫðr eða Frigg til manna samgangs, kvinna ok karla, þótt áðr sé bannat eða þvertekit

[1] Sål. alle, undt. R uden (?) art. [2] ef, W, T. [3] Foran af R. [4] Sål. U, T; heitir, R; mgl. W. [5] Mgl. R.

þykki[1]; þat[2] er af hennar nafni lof kallat ok svá þat, at[3] hon[3] er lofuð[4] mjǫk af mǫnnum. Ix. Vár — hon hlýðir á eiða manna ok einka-mál, er veita sín á milli konur ok karlar; því heita þau mál várar; hon hefnir ok þeim er brigða. X. Vǫr — hon[5] er[5] vitr ok spurul, svá at engi hlut má hana leyna; þat er orðtak, at kona verði vǫr þess, er hon verðr vís. Xi. Syn — hon gætir dura í hǫllinni ok lýkr fyrir þeim, er eigi skolu inn ganga, ok hon er sett til varnar á þingum fyrir þau mál, er hon[6] vill ósanna[7]; því er þat orðtak, at syn sé fyrir sett, þá er maðr[8] neitar. Xii. Hlín — hon er sett til gæzlu yfir þeim mǫnnum, er Frigg vill forða við háska nǫkkurum; þaðan af er þat orðtak, at sá, er forðask, hleinir. Xiii. Snotra — hon er vitr ok látprúð; af hennar heiti er kallat snotr kona eða karlmaðr, sá er hófláţr[9] er. Xiiii. Gná — hana sendir Frigg í ýmsa heima at ørendum sínum; hon á þann hest, er renn lopt ok lǫg ok[10] heitir Hófvarpnir. Þat var eitt sinn, er hon reið, at vanir nǫkkurir sá reið hennar í loptinu; þá mælti einn:

38. Hvat þar flýgr?
hvat þar ferr,
eða at lopti líðr?

Hon svarar:

39. Né ek flýg,
þó ek ferk[11]
ok at lopti líðk
á Hófvarpni,
þeims Hamskerpir
gat við Garðrofu.

Af Gnár nafni er svá kallat, at þat gnæfar[12], er hátt ferr. Sól ok Bil eru talðar með ásynjum, en sagt er fyrr[13] eðli þeira.

35. Enn eru þær aðrar, er þjóna skolu í Valhǫll, bera

[1] Sål. W; mgl. R; eða þvert., mgl. T, U. [2] Sål. W, T; mgl. U; fyrir því, R. [3] Sål. W, T (mgl. at); mgl. R. [4] Sål. W, T; lofat er, R. [5] Sål. R, W, T; er, U; ok tf. R. [6] Sål. T, R; hann, W; maðr, U. [7] ásanna, R. [8] Sål. U, W, T; hann, R. [9] Sål. W, T; vitr maðr, R; sætn. mgl. U. [10] Sål. U, W, T; er, R. [11] Sål. U; fer, de øvr. [12] Sål. alle. [13] frá tf. R; mgl. W, T.

drykkju ok gæta borðbúnaðar ok ǫlgagna; svá eru þær nefndar í Grímnismálum:

40. Hrist ok Mist — Hildr ok Þrúðr,
vilk at mér horn beri — Hlǫkk ok Herfjǫtur,
Skeggjǫld ok Skǫgul — Gǫll ok Geirahǫð,
Randgríðr[1] ok Ráðgríðr[1]
ok Reginleif —
þær bera Einherjum ǫl.

Þessar heita valkyrjur; þær sendir Óðinn til hverrar orrostu; þær kjósa feigð á menn ok ráða sigri. Guðr ok Róta[2] ok norn en yngsta, er Skuld heitir, ríða jafnan at kjósa val ok ráða vígum. Jǫrð, móðir Þórs, ok Rindr, móðir Vála, eru talðar með ásynjum.

**36.** Gymir hét maðr, en kona hans Aurboða; hon var bergrisa ættar; dóttir þeira var[3] Gerðr, er allra kvinna var[4] fegrst. Þat var einn dag, at[5] Freyr hafði gengit í Hliðskjálf ok sá of heima alla, en er hann leit í norðrætt, þá sá hann á einum bœ mikit hús ok fagrt, ok til þess húss gekk kona, ok er hon tók upp hǫndunum[6] ok lauk hurð fyrir sér, þá lýsti af hǫndum hennar bæði í lopt ok á lǫg ok allir heimar[7] birtusk af henni; ok svá hefndi honum þat[8] mikillæti, er hann hafði sezk í þat et[9] helga sæti, at hann gekk í braut fullr af harmi. Ok er hann kom heim, mælti hann ekki; ekki[10] svaf hann, ekki[11] drakk hann[7]; engi þorði at[12] krefja hann málsins[13]. Þá lét Njǫrðr kalla til sín Skírni, skósvein Freys, ok bað hann ganga til Freys ok beiða hann orða ok spyrja, hverjum hann væri svá reiðr, at hann mælti ekki við menn. En Skírnir lézk[14] ganga mundu ok eigi fúss ok kvað illra svara vera ván af honum. En er hann

---

[1] Sål. U; uden -r de øvr. [2] Sål. W, R, T. [3] Sål. U; er, de øvr. [4] Sål. W, T; er, R. [5] Sål. U, W, T; er, R. [6] Sål. W, T; uden art. R. [7] Mgl. R. [8] mikla tf. R. [9] Sål. W, T, U; mgl. R. [10] Sål. W, T; hvárki, R. [11] Sål. W, T; né, R. [12] Sål. W, T; ok, R. [13] Sål. W, T; orða, R. [14] Sål. W, T; kvez, R.

kom til Freys, þá spurði hann, hví Freyr var svá hnipinn ok mælti ekki við menn. Þá svarar Freyr ok sagði, at hann hafði sét konu fagra ok fyrir hennar sakar var hann svá harmfullr[1], at eigi myndi hann lengi lifa, ef hann skyldi eigi ná henni — »ok nú skaltu fara ok biðja hennar mér til handa ok hafa hana[2] hingat, hvárt er faðir hennar vill eða eigi[3] — skal ek þat vel launa þér«. Þá svarar Skírnir[4] svá, at hann skal fara sendiferð, en Freyr skal fá honum sverð sitt — þat var svá gott[5], at sjálft vásk — en Freyr lét eigi þat til skorta ok gaf honum sverðit. Þá fór Skírnir ok bað honum konunnar ok fekk heit[6] hennar, ok níu nóttum síðarr skyldi hon þar koma, er Barrey heitir, ok ganga þá at brullaupinu með Frey. En er Skírnir sagði Frey sitt ørendi, þá kvað hann þetta:

41. Lǫng es nǫ́tt,
lǫng es ǫnnur,
3 hvé megak[7] þreyja þríar?
opt mér mǫ́nuðr
minni þótti,
6 an sjá hǫlf hýnǫ́tt.

Þessi sǫk var[8] til, er Freyr var svá vápnlauss, er hann barðisk við Belja ok drap hann með hjartar-horni. — Þá mælti Gangleri: Undr mikit, er því-líkr hǫfðingi sem Freyr er vildi gefa sverð, svá at hann átti eigi annat jafngott; geysimikit mein var honum þat, þá er hann barðisk við þann, er Beli heitir; þat veit trúa mín, at þeirar gjafar myndi hann þá iðrask. — Þá svarar Hárr: Lítit mark var þá at, er þeir Beli hittusk; drepa mátti Freyr hann með hendi sinni; verða mun þat, er Freyr mun þykkja verr við koma, er hann missir sverðzins, þá er Múspellz-sønir fara at[9] herja.

**37**. Þá mælti Gangleri: Þat segir þú, at allir þeir menn, er í orrostu hafa fallit frá uphafi heims, eru nú komnir til Óðins í Valhǫll. Hvat hefir hann at fá þeim at vistum?; ek hugða, at þar skyldi vera allmikit fjǫlmenni. —

[1] Sål. W, T; harms, R. [2] heim tf. R. [3] ok tf. R. [4] sagði tf. R. [5] sverð tf. R. [6] Sål. W, T; med art. R. [7] Sål. T. [8] Sål. W, T; er, R. [9] Sål. W, T; ok, R.

Þá svarar Hárr: Satt er þat, er þú segir; allmikit fjǫlmenni er þar, en myklu fleira skal enn verða, ok mun þó oflítit þykkja, þá er úlfrinn kømr. En aldri er svá mikill mannfjǫlði í Valhǫll, at eigi má þeim endask flesk galtar þess, er Sæhrímnir heitir; hann er soðinn hvern dag ok heill at apni. En þessi spurning, er nú spyrr þú, þykki mér líkara at fáir myni svá vísir vera, at hér kunni satt af[1] at segja. Andhrímnir heitir steikarinn, en Eldhrímnir ketillinn; svá er hér sagt:

42. Andhrímnir lætr
í Eldhrímni
Sæhrímni soðinn,
fleska bazt,
en þat fáir vitu,
við hvat Einherjar alask.

Þá mælti Gangleri: Hvárt hefir Óðinn þat sama borðhald sem Einherjar? — Hárr segir: Þá vist, er á hans borði stendr, gefr hann ii. úlfum, er hann á, er svá heita, Geri ok Freki; en[2] enga vist þarf hann; vín er honum bæði matr[3] ok drykkr[3]; svá segir hér:

43. Gera ok Freka
seðr gunntamiðr
hróðigr Herjafǫðr,
en við vín
eitt vápngǫfigr
Óðinn æ lifir.

Hrafnar ii. sitja á ǫxlum honum ok segja í eyru honum ǫll tíðendi, þau er þeir sjá eða heyra; þeir heita svá, Huginn ok Muninn; þá sendir hann í dagan at fljúga um heim[4] allan[4] ok koma þeir aptr at dǫgurðar-máli; þar af verðr hann margra tíðenda víss; því kalla menn hann Hrafnaguð; svá sem sagt er:

44. Huginn ok Muninn
fljúga hverjan dag
jǫrmungrund yfir;
óumk ek Hugin,
at hann aptr né komi;
þó sjámk ek meir of[5] Munin.

**38.** Þá mælti Gangleri: Hvat hafa Einherjar at drykk, þat er þeim endisk jafngnógliga sem vistin, eða er þar vatn

[1] Sál. W, T; mgl. R. [2] Sál. U, W, T; ok, R. [3] Sál. U, T; omv. R, W. [4] Sál. W, T; jfr. U; omv. R. [5] Sál. (um) W, T, U; at, R.

drukkit? — Þá segir Hárr: Undarliga spyrr þú nú, at Alfǫðr mun bjóða til sín konungum eða jǫrlum eða ǫðrum ríkis-mǫnnum ok myni gefa þeim vatn at drekka — ok þat veit trúa mín, at margr kømr sá til Valhallar, er dýrt myndi þykkjask kaupa vaz-drykkinn, ef eigi væri betra fagnaðar þangat at vitja, sá er áðr þolir sár ok sviða til banans. Annat kann ek þér þaðan segja. Geit sú, er Heiðrún heitir, stendr uppi á Valhǫll ok bítr barr af limum trés þess, er mjǫk er nafnfrægt, er Læraðr heitir, en ór spenum hennar rennr mjǫðr sá, er hon fyllir skapker hvern dag; þat er svá mikit, at allir Einherjar verða fulldruknir af. — Þá mælti Gangleri: Þat er þeim geysi-haglig geit; forkunnar-góðr viðr mun sá[1] vera, er hon bítr af. — Þá mælti Hárr: Enn er meira mark at of hjǫrtinn Eikþyrni, er stendr á Valhǫll ok bítr af limum þess trés, en af hornum hans[2] verðr svá mikill dropi, at niðr kømr í Hvergelmi, ok[3] þaðan af falla þær[4] ár[4], er svá heita: Síð, Víð, Sœkin, Eikin[5], Svǫl, Gunnþrǫ́, Fjǫrm, Fimbulþul, Gípul, Gǫpul, Gǫmul, Geirvimul — þessar falla um ása byggðir; þessar eru enn nefndar, Þyn, Vín, Þǫll, Hǫll[6], Gráð, Gunnþráin, Nyt, Nǫt, Nǫnn, Hrǫnn, Vína, Vegsvinn, Þjóðnuma.

39. Þá mælti Gangleri: Þetta eru undarlig tíðendi, er nú sagðir þú. Geysi-mikit hús mun Valhǫll vera; allþrǫngt mun þar opt vera fyrir durum. — Þá svarar Hárr: Hví spyrr þú eigi þess, hversu margar dyrr eru á hǫllinni[7] eða hversu stórar? Ef þú heyrir þat sagt, þá muntu segja, at hitt er undarligt, ef eigi má ganga út ok inn, hverr er vill; en þat er með sǫnnu at segja, at eigi er þrǫngra at skipa hana en ganga í hana; hér máttu heyra í Grímnismálum:

45. Fimm hundruð dura
ok of fjórum tøgum

[1] Sál. W, T; þat, R, U. [2] Mgl. R, T. [3] Sál. U, W, T; en, R. [4] Sál. U, W, T; omv. R. [5] Ekin, W, T, R; ækin, U. [6] Sál. U, W, T; boll, R. [7] Sál. W, T; Valhǫll, R.

svá hygg ek á Valhǫllu vesa
átta hundruð Einherja
ganga[1] ór einum durum,
þás þeir fara við[2] vitni at vega.

**40.** Þá mælti Gangleri: Allmikill mannfjǫlði er í Valhǫllu[3]; svá njóta trú minnar, at allmikill hǫfðingi er Óðinn, er hann stýrir svá miklum her. Eða hvat er skemtun Einherja[4], þá er þeir drekka eigi? — Hárr segir: Hvern dag, þá er þeir hafa klæzk, þá hervæða þeir sik ok ganga út í garðinn ok berjask ok fellir[5] hverr annan[5]; þat er leikr þeira; ok er líðr at dǫgurðar-máli, þá ríða þeir heim til Valhallar ok setjask til drykkju, svá sem hér segir:

46. Allir Einherjar
Óðins túnum í
hǫggvask hverjan dag;
val þeir kjósa
ok ríða vígi frá,
sitja meirr of sáttir saman.

En satt er þat, er þú sagðir; mikill er Óðinn fyrir sér; mǫrg dœmi finnask til þess; svá er hér sagt í orðum sjálfra ásanna:

47. Askr Yggdrasils
hann 's œztr viða,
en Skíðblaðnir skipa;
Óðinn ása,
en jóa Sleipnir,
Bifrǫst brúa,
en Bragi skálda,
Hábrók hauka,
en hunda Garmr.

**41.** Þá mælti Gangleri: Hverr á þann hest Sleipni, eða hvat er frá honum at segja? — Hárr segir: Eigi kantú deili á Sleipni ok eigi veiztu atburði, af hverju hann kom, en þat mun þér þykkja frásagnar vert. Þat var snimma í ǫndverða byggð goðanna, þá er goðin hǫfðu sett Miðgarð ok gǫrt Valhǫll, þá kom þar smiðr nǫkkurr ok bauð at gera þeim borg á þrim misserum svá góða, at trú ok ørugg væri fyrir bergrisum ok hrímþursum, þótt þeir kœmi inn um

[1] senn tf. W, T, R. [2] með, R, T. [3] Sál. U, W; hǫll, R, T. [4] Sál. U, T; med art. R, W. [5] fellr, R og annan er forskrevet, så at man har læst aannan, men det står der ikke.

Miðgarð, en hann mælti sér þat til kaups, at hann skyldi eignask Freyju, ok hafa vildi hann sól ok mána. Þá gengu æsirnir á tal ok réðu ráðum sínum, ok var þat kaup gǫrt við smiðinn, at hann skyldi eignask þat, er hann mælti til, ef hann fengi gǫrt borgina á einum vetri, en enn fyrsta sumars-dag ef nǫkkurr hlutr væri ógǫrr at borginni, þá skyldi hann af kaupinu, ok[1] skyldi hann af engum manni lið þiggja til verksins. Ok er þeir sǫgðu honum þessa kosti, þá beiddisk hann, at þeir skyldu lofa, at[2] hann[2] hefði lið af hesti sínum, er Svaðilfari[3] hét, en því réð Loki, er þat var til lagt við hann. Hann tók til enn fyrsta vetrar-dag at gera borgina, en of nætr dró hann til grjót á hestinum, en þat þótti ásunum mikit undr, hversu stór bjǫrg sá hestr dró, ok hálfu meira þrekvirki gerði hestrinn en smiðrinn. En at kaupi þeira váru sterk vitni ok mǫrg sœri, fyrir því at jǫtnum[4] þótti ekki tryggt at vera með ásum griðalaust, ef Þórr kvæmi heim, en þá var hann farinn í Austrveg at berja trǫll. En er á leið vetrinn, þá sóttisk mjǫk borgar-gerðin, ok var hon svá há ok sterk, at eigi mátti á þat leita. En þá er iii. dagar váru til sumars, þá var komit mjǫk at borghliði. Þá settusk goðin á dómstóla sína ok leituðu ráða ok spurði hverr annan, hverr því hefði ráðit at gipta Freyju í Jǫtunheima eða spilla loptinu ok himninum svá at taka þaðan sól ok tungl ok gefa jǫtnum, en þat kom ásamt með ǫllum, at þessu myndi ráðit hafa, sá er flestu illu ræðr, Loki Laufeyjarson, ok kváðu hann verðan illz dauða, ef eigi hitti hann ráð til, at smiðrinn væri af kaupinu, ok veittu Loka atgǫngu. En er hann varð hræddr, þá svarði hann eiða, at hann skyldi svá til haga, at smiðrinn væri[5] af kaupinu, hvat sem hann kostaði til. Ok et sama kveld, er smiðrinn ók út eptir grjótinu með hestinn Svaðilfara, þá hljóp ór skógi[6] nǫkkur-

---

[1] Sål. U, T; mgl. R, W. [2] Mgl. R. [3] Sål. W; -fǫri, R, T; -feri, U (allevegne). [4] Sål. W, R, T. [5] Sål. U, W, T; skyldi, R. [6] Med art. R.

um merr ok[1] at hestinum ok hrein við; en er hestrinn kendi, hvat hrossi þetta var, þá œddisk hann ok sleit sundr reipin ok hljóp til merarinnar, en hon undan til skógar ok smiðrinn eptir ok vill taka hestinn, en þessi hross hlaupa alla nótt, ok dvelsk smíðin þá nótt, ok eptir um daginn varð ekki svá smíðat, sem fyrr hafði orðit. Ok þá er smiðrinn sér, at eigi mun lokit verða verkinu, þá fœrisk smiðrinn í jǫtunmóð. En er æsirnir sá þat til víss, at þar var bergrisi kominn, þá varð eigi þyrmt eiðunum, ok kǫlluðu þeir á Þór, ok jafnskjótt kom hann, ok því næst fór á lopt hamarrinn Mjǫllnir; galt hann[2] þá smíðar-kaupit ok eigi sól eða[3] tungl, heldr synjaði hann honum at byggva í Jǫtunheimum ok laust þat et fyrsta hǫgg, er haussinn brotnaði í smán mola, ok sendi hann niðr undir Niflheim[4]. En Loki hafði þá ferð haft til Svaðilfara, at nǫkkuru síðarr bar hann fyl; þat var grátt ok hafði viii. fœtr, ok er sá hestr baztr[5] með goðum ok mǫnnum. Svá segir í Vǫluspá:

48. Þá gengu regin ǫll
á rǫkstóla,
ginnheilog goð,
ok of þat gættusk,
hverr hefði lopt alt
lævi blandit
eða ætt jǫtuns
Óðs mey gefna.

49. Á gengusk eiðar,
orð ok sœri,
mǫ́l ǫll meginlig,
es á meðal fóru;
Þórr einn þar[6] vá[7],
þrunginn móði,
hann sjaldan sitr,
es hann slíkt of fregn.

42. Þá mælti Gangleri: Hvat er at segja frá Skíðblaðni, er hann er beztr skipa? hvárt er ekki skip jafnmikit[8] sem hann[9]? — Hárr segir: Skíðblaðnir er beztr skipanna ok með mestum hagleik gǫrr, en Naglfar[10] er mest skip; þat[11] á Múspell. Dvergar nǫkkurir, sønir Ívalda, gerðu Skíðblaðni

---

[1] Sål. W, T; mgl. R. [2] Sål. W, T; mgl. R. [3] Sål. W, T; ok, R [4] Sål. U, T; -hel, R, W. [5] Sål. W; beztr, de øvr. [6] Sål. U, T; þat, W R. [7] Sål. U, W, T; vann, R. [8] Sål. W, T; -gott, R. [9] er, eða jafnmikit tf. R. [10] Sål. W, T; -fari, U, R. [11] er tf. R; jfr. U.

ok gáfu Frey skipit; hann er svá mikill, at allir æsir megu skipa hann með vápnum ok herbúnaði, ok hefir hann byr, þegar er segl er dregit, hvert er fara skal; en þá er eigi skal fara með hann á sæ, þá er hann gǫrr af svá mǫrgum hlutum ok með svá mikilli list, at hann má vefja saman sem dúk ok hafa í pungi[1] sínum.

43. Þá mælti Gangleri: Gott skip er Skíðblaðnir, en allmikil fjǫlkyngi mun við vera hǫfð, áðr svá fái gǫrt. Hvárt hefir Þórr hvergi svá farit, at hann hafi hitt fyrir sér svá ríkt eða ramt, at honum hafi ofrefli[2] verit fyrir afls sakar eða fjǫlkyngi? — Þá mælti Hárr: Fár maðr vættir mik at frá því kunni segja, en mart hefir honum harðfœrt þótt, en þótt svá hafi verit, at nǫkkurr hlutr hafi svá ramr eða sterkr verit[3], at Þórr hafi eigi sigr fengit á unnit, þá er eigi[4] skylt at segja frá, fyrir því at mǫrg dœmi eru til þess ok því eru allir skyldir at trúa, at Þórr er mátkastr. — Þá mælti Gangleri: Svá lízk mér, sem þess hlutar muna[5] ek yðr spurt hafa, er engi er til fœrr at segja. — Þá mælti Jafnhárr: Heyrt hǫfum vér sagt frá þeim atburðum, er oss þykkja ótrúligir, at sannir myni vera, en hér mun sjá sitja nær, er vita mun sǫnn tíðendi af at segja, ok muntu því trúa, at hann mun eigi ljúga nú et fyrsta sinn, er aldri laug fyrr. — Þá mælti Gangleri: Hér mun ek standa ok hlýða, ef nǫkkur órlausn fæsk[6] þessa máls, en at ǫðrum kosti kalla ek yðr vera yfir komna, ef þér kunnuð eigi[7] segja, þat er ek spyr. — Þá mælti Þriði: Auðsýnt er nú, at hann vill þessi tíðendi vita, þótt oss þykki eigi fagrt at segja[8]. Þat er uphaf þessa máls, at Ǫkuþórr fór með hafra sína ok reið ok með honum sá áss, er Loki heitir[9]; koma þeir at kveldi til eins búanda ok fá þar náttstað. En um kveldit tók Þórr hafra sína ok

[1] Sål. U, W; pung, R, T. [2] í tf. W, R; mgl. U, T. [3] Sål. W, T, U (orðit); efter svá R. [4] Mgl. R. [5] Sål. U, W, T; mun, R. [6] Sål. W; fær, R; fer, T foran órl. [7] at tf. R; mgl. W, T. [8] en þér er at þegja tf. R. [9] Sål. W, T; er kallaðr, R.

skar báða; eptir þat váru þeir flegnir ok bornir til ketils; en er soðit var, þá settisk Þórr til náttverðar ok þeir lagsmenn. Þórr bauð til matar með sér búandanum ok konu hans ok bǫrnum þeira; sonr búanda[1] hét Þjálbi, en Rǫskva dóttir. Þá lagði Þórr hafrstǫkurnar útar frá eldinum ok mælti, at búandi ok heima-menn hans skyldu kasta á hafrstǫkurnar beinunum. Þjálfi, sonr búanda, helt á lærlegg hafrsins ok spretti á knífi sínum ok braut til mergjar. Þórr dvalðisk þar of nóttina, en í óttu fyrir dag stóð hann upp ok klæddi sik, tók hamarinn Mjǫllni ok brá upp ok vígði hafrstǫkurnar; stóðu þá upp hafrarnir, ok var þá annarr haltr eptra fœti. Þat fann Þórr ok talði, at búandinn eða hans hjón myndi eigi skynsamliga hafa farit með beinum hafrsins; kennir hann, at brotinn var lærleggrinn. Eigi þarf langt frá því at segja, vitu megu þat allir, hversu hræddr búandinn mundi vera, er hann sá, at Þórr lét síga brýnnar ofan fyrir augun; en þat er hann[2] sá augnanna, þá hugðisk hann falla mundu fyrir sjónum[3] hans einum[3] saman[4]; hann herði hendrnar at hamarskaptinu, svá at hvítnuðu knúarnir, en búandinn gerði, sem ván var, ok[5] ǫll hjúnin, kǫlluðu ákafliga, báðu sér friðar, buðu at yfirbótum[6] alt þat, er þau áttu; en er hann sá hræzlu þeira, þá gekk af honum móðrinn ok sefaðisk hann ok tók af þeim í sætt bǫrn þeira, Þjálfa ok Rǫsku, ok gerðusk þau þá skyldir þjónostu-menn hans[7], ok fylgja þau honum jafnan síðan.

**44**. Lét hann þar eptir hafra ok byrjaði ferðina austr í Jǫtunheima ok alt til hafsins, ok þá fór hann út yfir hafit þat et djúpa; en er hann kom til landz, þá gekk hann upp ok með honum Loki ok Þjálfi ok Rǫskva. Þá er þau hǫfðu lítla hríð gengit, varð fyrir þeim mǫrk stór; gengu þau þann dag[8] allan til myrkrs. Þjálfi var allra manna fóthvatastr;

---

[1] Sål. W, T; búa, R. [2] Sål. U, T; mgl. W, R. [3] Sål. T; jfr. U; sjóninni einni, R, W. [4] Sål. U, W, T; samt, R. [5] at, R. [6] Sål. W (bót), T; jfr. U; fyrir kvæmi, R. [7] Sål. W, T; jfr. U; Þórs, R. [8] Mgl. R.

hann bar kýl Þórs, en til vista var eigi gott. Þá er myrkt var orðit, leituðu þeir sér[1] náttstaðar ok fundu fyrir sér skála nǫkkurn mjǫk mikinn; váru dyrr á enda ok jafnbreiðar skálanum; þar leituðu þeir sér náttbóls. En of miðja nótt varð landskjálpti mikill, gekk jǫrðin undir þeim skykkjum ok skalf húsit. Þá stóð Þórr upp ok hét á lags-menn sína, ok leituðusk fyrir ok fundu afhús til hœgri handar í miðjum skálanum ok gengu þannig; settisk Þórr í dyrnar[2], en ǫnnur þau váru innar frá honum, ok váru þau hrædd, en Þórr helt hamarskaptinu ok hugði at verja sik; þá heyrðu þau ym mikinn ok gný. En er kom at dagan, þá gekk Þórr út ok sér mann[3], hvar lá[4] skamt frá honum í skóginum, ok var sá eigi lítill; hann svaf ok hraut sterkliga. Þá þóttisk Þórr skilja, hvat látum[5] verit hafði of nóttina; hann spennir sik megingjǫrðum ok óx honum ásmegin; ok[6] í því bili[6] vaknar sá maðr, stóð[7] upp skjótt[7], en þá er sagt, at Þór varð bilt einu sinni at slá hann með hamrinum, ok spurði hann at nafni, en sá nefndisk Skrýmir — »en eigi þarf ek, sagði hann, at spyrja þik at nafni; kenni ek, at þú ert Ásaþórr, eða hvárt hefir þú dregit á braut hanzka minn?« Seilðisk þá Skrýmir til ok tók upp hanzkann[8]; sér Þórr þá, at þat hafði hann haft of nóttina fyrir skála, en afhúsit, þat var þumlungrinn hanzkans. Skrýmir spurði, ef Þórr vildi hafa fǫruneyti hans, en Þórr játti því. Þá tók Skrýmir ok leysti nestbagga sinn ok bjósk til at eta dǫgurð, en Þórr í ǫðrum stað ok hans félagar. Skrýmir bauð þá, at þeir legði mǫtuneyti sitt, en Þórr játti því. Þá batt Skrýmir nest þeira alt í einn bagga ok lagði á bak sér; hann gekk fyrir of daginn ok steig heldr stórum, en síð[9] at kveldi leitaði Skrýmir þeim náttstaðar undir eik nǫkkurri mikilli. Þá mælti Skrýmir til

---

[1] til tf. R, W; mgl. U, T. [2] Sål. U, W, T; dyrrin, R. [3] Sål. W, T; jfr. U; mgl. R. [4] maðr tf. R. [5] lætum, W; letum, T. [6] Sål. U, T, W (en); en í því, R. [7] Sål. U, W, T; ok st. skj. upp, R. [8] Sål. U, W; hanzka sinn, R, T. [9] Sål. W, T; síðan, R.

Þórs, at hann vill leggjask niðr at sofa[1] — »en þér takið nestbaggann ok búið til nótturðar yðr«. Því næst sofnar Skrýmir ok hraut fast, en Þórr tók nestbaggann ok skal leysa, en svá er at segja, sem ótrúligt mun þykkja, at engi knút fekk hann leyst ok engi álar-endann hreyft, svá at þá væri lausari en áðr; ok er hann sér, at þetta verk má eigi nýtask, þá varð hann reiðr, greip þá hamarinn Mjǫllni tveim hǫndum ok steig framm ǫðrum fœti at þar, er Skrýmir lá, ok lýstr í hǫfuð honum, en Skrýmir vaknar ok spyrr, hvárt laufs-blað[2] felli í hǫfuð honum eða hvárt þeir hafi[3] þá matazk ok sé búnir til rekna. Þórr segir, at þeir munu þá sofa ganga; ganga þau þá undir aðra eik. Er þat þér satt at segja, at ekki var þá óttalaust at sofa. En at miðri nótt þá heyrir Þórr, at Skrýmir hrýtr ok sefr fast, svá at dunar í skóginum; þá stendr hann upp ok gengr til hans, reiðir hamarinn títt ok hart ok lýstr ofan í miðjan hvirfil honum; hann kennir, at hamars-muðrinn søkkr djúpt í hǫfuðit. En í því bili vaknar Skrýmir ok mælti: »hvat er nú; fell akarn nǫkkut í hǫfuð mér, eða hvat er títt um þik Þórr?«. En Þórr gekk aptr skyndiliga ok svarar, at hann var þá nývaknaðr, sagði, at þá var mið nótt ok enn væri mál at sofa. Þá hugsaði Þórr þat, ef hann kvæmi svá í fœri at slá hann et þriðja hǫgg, at aldri skyldi hann sjá sik síðan, liggr nú ok gætir, ef Skrýmir sofnaði enn[4] fast. En litlu fyrir dagan þá[5] heyrir hann[5], at Skrýmir mun sofnat hafa, stendr þá upp ok hleypr at honum, reiðir þá hamarinn af ǫllu afli ok lýstr á þunnvangann, þann er upp vissi; søkkr þá hamarrinn upp at skaptinu, en Skrýmir settisk upp ok strauk of vangann ok mælti: »hvárt munu foglar nǫkkurir sitja í trénu yfir mér; mik grunaði[6], er ek vaknaða, at tros nǫkkut af kvistunum felli í hǫfuð mér; hvárt vakir þú Þórr? Mál mun

[1] Sål. U, W, T; sofna, R. [2] nǫkkut tf. R; mgl. U, W, T. [3] Sål. W, T; hefði, R. [4] Sål. W, T; mgl. R. [5] Omv. R. [6] Sål. W, T, jfr. U; grunar, R.

vera upp at standa ok klæðask, en ekki eiguð ér[1] nú langa leið framm til borgarinnar, er kǫlluð[2] er Útgarðr. Heyrt hefi ek, at þér hafið kvisat í milli yðvar, at ek væra ekki lítill maðr vexti, en sjá skoluð þér þar stœrri menn, ef þér komið í Útgarð. Nú mun ek ráða yðr heilræði; látið ér[1] eigi stórliga yfir yðr, ekki munu hirðmenn Útgarðaloka vel þola þvílíkum kǫgursveinum kǫpuryrði, en at ǫðrum kosti hverfið aptr, ok þann ætlak[1] yðr vera[3] betra af at taka; en ef þér vilið framm fara, þá stefnið ér[1] í austr, en ek á nú norðr leið til fjalla þessa, er þér[4] meguð nú sjá[4]«. Tekr Skrýmir nestbaggann ok kastar á bak sér ok snýr þvers[5] í skóginn frá þeim, ok er þess eigi[6] getit, at æsirnir bæði þá heila hittask.

**45.** Þórr snýr[7] framm á leið ok þeir félagar ok gengr[8] framan[9] til miðs dags; þá sá þeir borg standa á vǫllum nǫkkurum ok settu hnakkann á bak sér aptr, áðr þeir fengu sét yfir upp; ganga til borgarinnar, ok var grind fyrir borghliðinu ok lokin aptr. Þórr gekk á grindina ok fekk eigi upp lokit, en er þeir þreyttu at komask í borgina, þá smugu þeir milli spalanna ok kómu svá inn, sá þá hǫll mikla ok gengu þannig; var hurðin opin; þá gengu þeir inn ok sá þar marga menn á tvá bekki ok flesta œrit stóra. Því næst koma þeir fyrir konunginn Útgarðaloka ok kvǫddu hann, en hann leit seint til þeira ok glotti við[10] tǫnn ok mælti: »seint er um langan veg at spyrja tíðenda, eða er annan veg en ek hygg, er[11] þessi sveinstauli orðinn[12] Ǫkuþórr?, en meiri muntu vera, en mér lízk þú, eða hvat íþrótta er[13] þat[13], er þér félagar þykkizk vera við búnir? Engi skal hér vera með oss, sá er eigi kunni nǫkkurs konar list eða kunnandi um framm flesta menn«. Þá segir sá, er síðarst gekk,

[1] Sål. T. [2] Sål. W; kallaðr, T; kallat, R. [3] Sål. T, W (foran yðr); mgl. R. [4] Sål. T, W; nú munuð þér sjá mega, R. [5] á braut tf. R. [6] Mgl. W, R. [7] Sål. W, T; fór, R. [8] Sål. W, T; gekk, R. [9] Sål. W, T; fram, R. [10] Sål. U, W, T; um, R. [11] Sål. W, T; jfr. U; at, R. [12] Sål. U, W, T; sé, R. [13] Mgl. R.

er Loki heitir: »kann ek þá íþrótt, er ek em albúinn at reyna, at engi er hér sá inni, er skjótara skal eta mat sinn en ek«. Þá svarar Útgarðaloki: »íþrótt er þat, ef þú efnir, ok freista skal þá þessar íþróttar« — kallaði útar á bekkinn, at sá, er Logi heitir, skal ganga á gólf framm ok freista sín í móti Loka. Þá var tekit trog eitt ok borit inn á hallargólfit ok fylt af slátri; settisk Loki at ǫðrum enda en Logi at ǫðrum, ok át hvárr-tveggi sem tíðast ok mœttusk í miðju troginu; hafði þá Loki etit slátr alt af beinum, en Logi hafði ok etit slátr alt ok beinin með ok svá trogit; ok sýndisk nú ǫllum, sem Loki hefði látit leikinn. Þá spyrr Útgarðaloki, hvat sá enn ungi maðr kunni leika, en Þjálfi segir, at hann mun freista at renna skeið nǫkkur við einhvern þann, er Útgarðaloki fær til. Þá[1] segir Útgarðaloki[2], at þetta er góð íþrótt, ok kallar þess meiri ván, at hann sé vel at sér búinn of skjótleikinn, ef hann skal þessa íþrótt inna, en þó lætr hann skjótt skolu[3] þessa[3] freista. Stendr þá upp Útgarðaloki ok gengr út, ok var þar gott skeið at renna eptir sléttum velli. Þá kallar Útgarðaloki til sín sveinstaula nǫkkurn, er nefndr er Hugi, ok bað hann renna í kǫpp við Þjálfa. Þá taka þeir et fyrsta skeið, ok er Hugi því framarr, at hann snýsk aptr í móti honum at skeiðs-enda. Þá mælti Útgarðaloki: »þurfa muntu Þjálfi, at leggja þik meirr framm, ef þú skalt vinna leikinn, en þó er þat satt, at ekki hafa hér komit þeir menn, er mér þykkja[4] fóthvatari en svá«. Þá taka þeir aptr annat skeið, ok þá er Hugi kømr[5] til skeiðs-enda ok hann snýsk aptr, þá var langt kólfskot til Þjálfa. Þá mælti Útgarðaloki: »vel þykki[6] mér Þjálfi[7] renna skeiðit, en eigi trúi ek honum nú, at hann vinni leikinn, en nú mun reyna, er þeir renna et iii. skeiðit«. Þá taka þeir enn skeið; en er Hugi er kominn til skeiðs-enda ok snýsk aptr, ok er Þjálfi

[1] Sål. T; hann, R; mgl. W (Ú. s.). [2] -loki mgl. R. [3] Omv. R. [4] Sål. W, T; þykkir, R. [5] Sål. U, W, T; kominn, R. [6] Sål. U, W, T; þykkja, R. [7] Sål. U, W, T; þit, R.

eigi þá kominn á mitt skeið[1]. Þá segja allir, at reynt er um þenna leik. Þá spyrr Útgarðaloki Þór, hvat þeira íþrótta mun vera, er hann myni vilja birta fyrir þeim, svá miklar sǫgur sem menn hafa gǫrt um stórvirki hans. Þá mælti Þórr, at helzt vill hann þat til[2] taka[2] at þreyta[3] drykkju við einhvern mann. Útgarðaloki segir, at þat má vel vera[4], gengr inn í hǫllina ok kallar skutilsvein sinn, biðr, at hann taki vítis-horn þat, er hirðmenn eru vanir at drekka af. Því næst kømr framm skutilsveinn með horninu ok fær Þór í hǫnd. Þá mælti Útgarðaloki: »af horni þessu þykkir þá vel drukkit, ef í[5] einum drykk gengr af, en sumir[6] drekka af í tveim drykkjum, en engi er svá lítill drykkju-maðr, at eigi gangi af í þrimr«. Þórr lítr á hornit ok sýnisk ekki mikit ok er þó heldr langt, en hann er mjǫk þyrstr, tekr at drekka ok svelgr allstórum ok hyggr, at eigi skal hann[7] þurfa at lúta optarr[8] í hornit; en er hann þraut ørendit ok hann laut ór horninu ok sér, hvat leið drykkinum, ok lízk honum svá, sem alllítill munr mun vera, at nú sé lægra í horninu en áðr. Þá mælti Útgarðaloki: »vel er drukkit ok eigi til mikit; eigi myndak trúa, ef mér væri frá sagt, at Ásaþórr myndi eigi meira drykk drekka, en þó veit ek, at þú munt vilja drekka af í ǫðrum drykk«. Þórr svarar engu, setr hornit á munn sér ok hyggr nú, at hann skal drekka meira drykk, ok þreytir á drykkjuna, sem honum vanzk til ørendi, ok enn[9] sér hann[9], at stikillinn hornsins vill ekki upp svá mjǫk, sem honum líkar, ok er hann tók hornit af munni sér ok sér í[10], lízk honum nú svá, sem minna hafi þorrit, en[11] enu fyrra sinni; er nú gott beranda[12] borð á horninu. Þá mælti Útgarðaloki: »hvat er nú Þórr; muntu nú eigi

---

[1] Sål. U, W, T; med art. R. [2] Omv. R. [3] um tf. W, T. [4] ok tf. R; mgl. U, W, T. [5] Mgl. R. [6] menn tf. R; mgl. de øvr. [7] Sål. W, T; jfr. U; mgl. R. [8] at sinni tf. R; mgl. de øvr. [9] Sål. U, W, T; sér enn, R. [10] Sål. U; mgl. R (sér í mgl. W, T). [11] í tf. R. [12] Sål. U; -andi, de øvr.

spara[1] til eins drykkjar meira en þér mun hagr á vera? Svá lízk mér, ef þú skalt nú drekka af horninu enn þriðja drykkinn, sem þessi mun mestr ætlaðr, en ekki muntu mega hér með oss heita svá mikill maðr sem æsir kalla þik, ef þú gerir eigi meira af þér um aðra leika en mér lízk at[2] um þenna mun vera«. Þá varð Þórr reiðr, setr hornit á munn sér ok drekkr sem ákafligast má hann ok þreytir[3] sem mest[4] á drykkinn[5]; en er hann sá í hornit, þá hafði nú helzt nǫkkut munr á fengizk, ok þá býðr hann upp hornit ok vill eigi drekka meira. Þá mælti Útgarðaloki: »auðsætt[6] er nú, at máttr þinn er ekki svá mikill, sem vér hugðum, en viltu freista um fleiri leika?; sjá má nú, at ekki nýtir þú hér af«. Þórr svarar: »freista má ek enn of nǫkkura leika, en undarliga myndi mér þykkja, þá er ek var heima með ásum, ef þvílíkir drykkir væri svá lítlir kallaðir, — en hvat leik vilið þér nú bjóða mér?«. Þá mælti Útgarðaloki: »þat gera hér ungir sveinar, er lítit mark mun at þykkja, at hefja upp af jǫrðu kǫtt minn, en eigi myndak kunna at mæla þvílíkt við Ásaþór, ef ek hefða eigi sét[7], at þú ert myklu minni fyrir þér, en ek hugða«. Því næst hljóp framm kǫttr einn grár á hallar-gólfit ok heldr mikill, en Þórr gekk til ok tók hendi sinni niðr undir miðjan kviðinn ok lypti upp, en kǫttrinn beygði kenginn[8] svá sem Þórr rétti upp hǫndina; en er Þórr seilðisk svá langt upp sem hann mátti lengst, þá létti kǫttrinn einum fœti ok fekk[9] Þórr eigi framit þenna leik meirr[10]. Þá mælti Útgarðaloki: »svá fór þessi leikr, sem mik varði; kǫttrinn er heldr mikill, en Þórr er lágr ok lítill hjá stórmenni því, sem hér er með oss«. Þá mælti Þórr: »svá lítinn sem þér kallið mik, þá gangi nú til einn hverr ok fáisk við mik — nú em ek

[1] Sål. U, W, T; sparaz, R. [2] Sål. W, T; sem, R. [3] Sål. W; þrýtr, R. [4] Sål. W, U; lengst, R. [5] Sål. W; at drykknum, R; ok—drykkinn mgl. T. [6] Sål. U, W; -set, R, T. [7] fyrr tf. W, R; mgl. U, T. [8] Sål. U, W, T; hangit, R. [9] Sål. W, T; fær, R. [10] Sål. W, T; mgl. R.

reiðr«. Þá svarar Útgarðaloki ok litask um á bekkina ok mælti: »eigi sé ek þann mann hér inni, er eigi mun lítilræði í þykkja at fásk við þik« — ok enn mælti hann: »sjám fyrst; kalli[1] hingat kerlinguna fóstru mína, Elli, ok fáisk Þórr við hana, ef hann vill; felt hefir hon þá menn, er mér hafa litizk eigi ósterkligri en Þórr er«. Því næst gekk í hǫllina kerling ein gǫmul. Þá mælti Útgarðaloki, at hon skal taka fang við Ásaþór. Ekki er langt um at gera, svá fór fang þat, at því harðara er Þórr knúðisk at fanginu, því fastara stóð hon; þá tók kerling at leita til bragða ok varð Þórr þá lauss á fótum, ok váru þær sviptingar allharðar ok eigi lengi, áðr[2] Þórr fell á kné ǫðrum fœti. Þá gekk til Útgarðaloki ok[3] bað þau hætta fanginu ok sagði svá, at Þórr myndi eigi þurfa at bjóða fleirum mǫnnum fang í hans hirð[4]; var þá ok liðit at[5] nótt; vísaði Útgarðaloki Þór ok þeim félǫgum til sætis, ok dveljask þar náttlangt í góðum fagnaði.

46. En at morni þegar dagaði, stendr Þórr upp ok þeir félagar, klæða sik ok eru búnir braut at ganga. Þá kom þar Útgarðaloki ok lét setja þeim borð, skorti þá eigi góðan fagnað, mat ok drykk; en er þeir hafa matazk, þá snúask þeir til ferðar. Útgarðaloki fylgir þeim út, gengr með þeim braut ór borginni; en at skilnaði þá mælti Útgarðaloki til Þórs ok spyrr, hvernig honum þykkir ferð sín orðin, eða hvárt hann hefir hitt ríkara mann nǫkkurn en sik. Þórr segir, at eigi mun hann þat segja, at eigi hafi hann mikla ósœmð farit í þeira viðskiptum — »en þó veit ek, at þér munuð kalla mik lítinn mann fyrir mér, ok uni ek því illa«. Þá mælti Útgarðaloki: »nú skal segja þér et sanna, er þú ert út kominn ór[6] borginni[6], ok[7] ef ek lifi ok megak ráða, þá skaltu aldri optarr í hana koma, ok þat

[1] mér tf. R, W; mgl. U, T. [2] en tf. R; mgl. W, T. [3] Mgl. R. [4] Sål. W, T; hǫll, R. [5] Sål. W, T; á, R. [6] of borgina, W, T. [7] Sål. W; at, R, T.

veit trúa mín, at aldri hefðir þú í hana komit, ef ek hefða vitat áðr, at þú hefðir svá mikinn krapt með þér ok þú hefðir[1] svá nær haft oss mikilli ófœru. En sjónhverfingar hefi ek gǫrt þér, ok[2] fyrsta sinn[3] á skóginum kom ek til fundar við yðr; ok þá er þú skyldir leysa nestbaggann, þá hafðak bundit hann[4] með grésjárni, en þú fant eigi[6], hvar upp skyldi lúka. En því næst laust þú mik með hamrinum iii. hǫgg ok var et fyrsta minst ok var þó svá mikit, at mér myndi endask til bana, ef á hefði komit; en þar er þú sátt hjá hǫll minni setberg ok þar sáttu ofan í þrjá dali ferskeytta ok einn djúpastan, þat[5] váru hamarspor þín; setberginu brá ek fyrir hǫggin, en eigi sátt þú þat. Svá var ok of leikana, er þér[6] þreyttuð við hirðmenn mína, þá var þat et fyrsta, er Loki gerði; hann var mjǫk soltinn ok át títt, en sá, er Logi hét, þat var villieldr ok brendi hann eigi seinna trogit[7] en slátrit[7]. En er Þjálfi þreytti rásina við þann, er Hugi hét, þat var hugr[8] minn, ok var Þjálfa eigi vænt, at þreyta skjótfœri við[9] hann[9]. En er þú drakt af horninu ok þótti þér seint líða, en þat veit trúa mín, at þá varð þat undr, er ek mynda eigi trúa, at vera mætti; annarr endir hornsins var út í hafi, en þat sáttu eigi, en nú, er þú kømr til sjávarins, þá muntu sjá mega, hvern þurð þú hefir drukkit á sænum; þat eru nú fjǫrur kallaðar«. Ok enn mælti hann: »eigi þótti mér hitt minna vera vert, er þú lyptir upp kettinum, ok, þér satt at segja, þá hræddusk allir þeir, er sá, er þú lyptir af jǫrðu einum fœtinum; en sá kǫttr var eigi sem þér sýndisk; þat var Miðgarðzormr, er liggr um lǫnd ǫll, ok vanzk honum varliga lengð[10] til, at jǫrðina tœki sporðr ok hǫfuð, ok svá langt seilðisk þú upp, at skamt var

[1] Sål. W, T; hafðir, R. [2] Sål. W; svá at, R, T. [3] er ek fann þik tf. R; mgl. W, T; jfr. U. [4] Sål. W, T; mgl. R; jfr. U. [5] Sål. W, U, T; þar, R. [6] Mgl. R. [7] Sål. W, T; omv. R. [8] Sål. W, T og vistnok R; jfr. U. [9] Sål. W, T, U; hans, R. [10] Sål. W, T; med art. R.

þá til himins; en hitt var ok mikit undr um fangit, er[1] þú stótt svá lengi við ok fellt eigi meirr en á kné ǫðrum fœti[1], er þú fekkt við Elli, fyrir því at engi hefir sá orðit ok engi mun verða, ef svá gamall verðr[2], at elli bíðr, at eigi komi ellin ǫllum til fallz. Ok er nú þat satt at segja, at vér munum skiljask, ok mun þá betr hvárra-tveggju handar, at þér komið eigi optarr mik at hitta. Ek mun enn annat sinn verja borg mína með þvílíkum vélum eða ǫðrum, svá at ekki vald munuð þér á mér fá«. En er Þórr heyrði þessa tǫlu, greip hann til hamarsins ok bregðr á lopt, en er hann skal framm reiða, þá sér hann[3] hvergi Útgarðaloka, ok þá snýsk hann aptr til borgarinnar ok ætlask þá fyrir at brjóta borgina; þá sér hann þar vǫllu víða ok fagra, en enga borg. Snýsk hann þá aptr ok ferr leið sína, til þess er hann kom aptr í Þrúðvanga. En[4] þat er satt at segja, at þá hafði hann ráðit fyrir sér at leita til, ef saman mætti bera fundi þeira Miðgarðzorms, sem síðan varð. Nú ætlak[5] engan kunna þér sannara at segja frá þessi ferð Þórs.

47. Þá mælti Gangleri: Allmikill er fyrir sér Útgarðaloki, en með vélum ok fjǫlkyngi ferr hann mjǫk, en þat má sjá, at hann er mikill fyrir sér, at hann átti hirðmenn þá, er mikinn mátt hafa — eða hvárt hefir Þórr ekki þessa hefnt? — Hárr svarar: Eigi er þat ókunnigt, þótt eigi sé frœðimenn, at Þórr leiðrétti þessa ferðina, er nú var frá[6] sagt, ok dvalðisk ekki lengi heima, áðr hann bjósk svá skyndiliga til ferðarinnar, at hann hafði eigi reið ok eigi hafrana ok ekki fǫruneyti. Gekk hann út of Miðgarð[7] svá sem ungr drengr ok kom einn aptan at kveldi til jǫtuns nǫkkurs, sá er Hymir[8] nefndr. Þórr dvalðisk þar at gistingu of nóttina. En í dagan stóð Hymir[9] upp ok klæddisk ok bjósk at róa á sæ til fiskjar, en Þórr spratt upp ok var

---

[1] er—fœti, sål. W, T; mgl. R. [2] Sål. W; er, R. [3] þar tf. R; mgl. W, T, U. [4] at, R. [5] Sål. T. [6] Sål. W, T; mgl. R. [7] Ásgarð, W. [8] Ym-, alle (eym-, U). [9] Ym-, W, T, R.

skjótt búinn ok bað, at Hymir[1] skyldi hann láta róa á sæ með sér, en Hymir[1] segir, at lítil liðsemð myndi at honum vera, er hann var lítill ok ungmenni eitt — »ok mun þik kala, ef ek sit svá lengi ok útarliga sem ek em vanr«. En Þórr sagði, at hann myndi róa mega fyrir því langt[2] frá landi, at eigi var víst, hvárt hann myndi fyrr beiðask at róa útan, ok reiddisk Þórr jǫtninum svá, at þá var búit, at hann myndi þegar láta hamarinn skjalla[3] honum, en hann lét þat við berask, þvíat hann hugðisk þá at reyna afl sitt í ǫðrum stað. Hann spurði Hymi[1], hvat þeir skyldu hafa at beitum, en Hymir[4] bað hann fá sér sjálfan beitur; þá snørisk Þórr á braut, þangat er hann sá øxna-flokk nǫkkurn, er Hymir[1] átti; hann tók enn mesta oxann, er Himinhrjóðr[5] hét, ok sleit af hǫfuðit ok fór með til sjávar; hafði þá Hymir[1] út skotit nǫkkvanum. Þórr gekk á skipit ok settisk í austrrúm, tók ii. árar ok røri, ok þótti Hymi[6] skriðr verða af róðri hans. Hymir[7] røri í hálsinum framm, ok sóttisk skjótt róðrinn; sagði þá Hymir[7], at þeir váru komnir á þær vastir, er hann var vanr at sitja ok draga flata fiska, en Þórr kveðsk vildu[8] róa myklu lengra, ok tóku þeir enn snertiróðr; sagði Hymir[9] þá, at þeir váru komnir svá langt út, at hætt var at sitja útarr fyrir Miðgarðzormi, en Þórr kveðsk mundu róa enn[10] um[10] hríð ok svá gerði hann[11], en Hymir[7] var þá allókátr. En þá er Þórr lagði upp árarnar, greiddi hann til vað heldr sterkjan ok eigi var ǫngullinn minni eða óramligri; þar lét Þórr kom á ǫngulinn oxa-hǫfuðit ok kastaði fyrir borð, ok fór ǫngullinn til grunnz, ok er þér[12] þat[12] satt at segja, at eigi[13] ginti þá Þórr miðr[14] Miðgarðzorm, en Útgarðaloki hafði spottat Þór, þá er hann hóf orminn upp á[15]

[1] Ym-, W, T, R. [2] Sál. W, T; mgl. R. [3] skella, W, T. [4] Sál. T; ym-, W, R; eym-, U. [5] Sál. U (-ri-); hrjótr, W, T (-ri-); hrjótr, R. [6] Ym-, alle (eym-, U). [7] Sál. R; ym-, W, T. [8] Sál. W, U; vilja, R, T. [9] Sál. T; ym-, R, W. [10] Sál. W, T; eina, R. [11] Mgl. R. [12] Sál. T, W (ul. þér); þá svá, R. [13] Sál. W, T; engu, R. [14] Mgl. R. [15] með, W, T.

hendi sér. Miðgarðzormr gein yfir[1] oxa-hǫfuðit, en ǫngullinn vá í góminn orminum, en er ormrinn kendi þess, brá hann við svá hart, at báðir hnefar Þórs skullu út at[2] borðinu[3]. Þá varð Þórr reiðr ok fœrðisk í ásmegin, spyrnði við fast svá[4], at hann hljóp báðum fótum gǫgnum skipit ok spyrnði við grunni, dró þá orminn upp at borði; en þat má segja, at engi hefir sá sét allógurligar[5] sjónir, er eigi mátti þat sjá, er Þórr hvesti augun á orminn, en ormrinn starði neðan í mót ok blés eitrinu. Þá er sagt, at jǫtunninn Hymir[6] gerðisk litverpr, fǫlnaði ok hræddisk, er hann sá orminn ok þat, er særinn fell út ok inn of nǫkkvann, ok í því bili, er Þórr greip hamarinn ok fœrði á lopt, þá fálmaði jǫtunninn til agnsaxinu[7] ok hjó vað Þórs á[8] borði, en ormrinn søkðisk í sæinn, en Þórr kastaði hamrinum eptir honum, ok segja menn, at hann lysti af honum hǫfuðit við hrǫnnunum[9], en ek hygg hitt vera þér satt at segja, at Miðgarðzormr lifir enn ok liggr í umsjá; en Þórr reiddi til hnefann ok setr við eyra Hymi[10], svá at hann steypðisk fyrir borð, ok sér í iljar honum, en Þórr óð til landz.

48. Þá mælti Gangleri: Hafa nǫkkur meiri tíðendi orðit með ásunum? Allmikit þrekvirki vann Þórr í þessi ferð. — Hárr svarar: Vera mun at segja frá þeim tíðendum, er meira þótti vert ásunum. En þat er uphaf þeirar[11] sǫgu, at Baldr enn góða dreymði drauma stóra ok hættliga um líf sitt. En er hann sagði ásunum draumana, þá báru þeir saman ráð sín, ok var þat gǫrt at beiða griða Baldri fyrir allz konar háska, ok Frigg tók svardaga til þess, at eira skyldu Baldri eldr ok vatn, járn ok allz konar málmr, steinar, jǫrðin, viðirnir, sóttirnar, dýrin, fuglarnir, eitrit[12], ormarnir[12]. En er

---

[1] um, W, T. [2] Sál. W; á, T, R; við, U. [3] en tf. R. [4] Sál. U, W (foran fast); mgl. R. [5] Sál. W, T; all-, mgl. R. [6] Sál. R; ym-, W, T. [7] -saxins, U; -sax, W. [8] Sál. W, T; jfr. við, U; af, R. [9] Sál. W, T; grunninum, R. [10] ym-, W, T, R. [11] Sál. W, T; þessar, R. [12] Sál. W, T; uden art. R.

þetta var gǫrt ok vitat, þá var þat skemtun Baldrs ok ásanna, at hann skyldi standa upp á þingum, en allir aðrir skyldu sumir skjóta at[1] honum[1], sumir hǫggva til, sumir berja grjóti; en hvat sem at var gǫrt, sakaði hann ekki, ok þótti þetta ǫllum mikill frami. En er þetta sá Loki Laufeyjarson, þá líkaði honum illa, er Baldr sakaði ekki. Hann gekk til Fensalar til Friggjar ok brá sér í konu líki. Þá spyrr Frigg, ef sú kona vissi, hvat æsir hǫfðusk at á þinginu. Hon sagði, at allir skutu at Baldri ok þat, at hann sakaði ekki. Þá mælti Frigg: »eigi munu vápn eða viðir granda Baldri; eiða hefi ek þegit af ǫllum þeim«. Þá spyrr konan: »hafa allir hlutir eiða unnit at eira Baldri?«. Þá svarar Frigg: »vex viðar-teinungr einn fyrir vestan[2] Valhǫll; sá er mistilteinn kallaðr; sá þótti mér ungr at krefja eiðsins«. Því næst hvarf konan á braut; en Loki tók mistiltein ok sleit upp ok gekk til þings. En Hǫðr stóð útarliga í mannhringinum, þvíat hann var blindr. Þá mælti Loki við hann: »hví skýtr þú ekki at Baldri?«. Hann svarar: »því, at ek sé eigi, hvar Baldr er, ok þat annat, at ek em vápnlauss«. Þá mælti Loki: »gerðu þó í líking annarra manna ok veit Baldri sœmð sem aðrir menn; ek mun vísa þér til, hvar hann stendr; skjót at honum vendi þessum«. Hǫðr tók mistiltein ok skaut at Baldri at tilvísun Loka; flaug skotit í gǫgnum Baldr, ok fell hann dauðr til jarðar, ok hefir þat mest óhapp verit unnit með goðum ok mǫnnum. Þá er Baldr var fallinn, þá fellusk ǫllum ásum orðtǫk ok svá hendr at taka til hans, ok sá hverr til annars, ok váru allir með einum hug til þess, er unnit hafði verkit, en engi mátti hefna; þar var svá mikill griða-staðr; en þá er æsirnir freistuðu at mæla, þá var hitt þó fyrr, at grátrinn kom upp, svá at engi mátti ǫðrum segja með orðunum frá sínum harmi; en Óðinn bar þeim mun verst þenna skaða, sem hann kunni mesta skyn,

---

[1] Sål. U, T; á hann, R, W. [2] Sål. alle.

hversu mikil aftaka ok missa ásunum var í fráfalli Baldrs. En er goðin vitkuðusk, þá mælti Frigg ok spurði, hverr sá væri með ásum, er eignask vildi allar ástir hennar ok hylli ok vili hann ríða á Helveg ok freista, ef hann fái fundit Baldr, ok bjóða Helju útlausn, ef hon vill láta fara Baldr heim í Ásgarð. En sá er nefndr Hermóðr enn hvati, sonr[1] Óðins, er til þeirar farar varð; þá var tekinn Sleipnir, hestr Óðins, ok leiddr framm, ok steig Hermóðr á þann hest ok hleypði braut. En æsirnir tóku lík Baldrs ok fluttu til sævar. Hringhorni hét skip Baldrs; hann var allra skipa mestr, hann vildu goðin framm setja ok gera þar á bálfǫr Baldrs, en skipit gekk hvergi framm. Þá var sent í Jǫtunheima eptir gýgi þeiri, er Hyrrokkin hét; en er hon kom ok reið vargi ok hafði hǫggorm at taumum, þá hljóp hon af hestinum, en Óðinn kallaði til berserki iiii. at gæta hestsins, ok fengu þeir eigi haldit, nema þeir feldi hann. Þá gekk Hyrrokkin á framstafn nǫkkvans ok hratt framm í fyrsta viðbragði, svá at eldr hraut ór hlunnunum ok lǫnd ǫll skulfu. Þá varð Þórr reiðr ok greip hamarinn ok myndi þá brjóta hǫfuð hennar, áðr[2] goðin ǫll báðu henni friðar. Þá var borit út á skipit lík Baldrs, ok er þat sá kona hans, Nanna Nepsdóttir, þá sprakk hon af[3] harmi ok dó; var hon borin á bálit ok slegit í eldi. Þá stóð Þórr at ok vígði bálit með Mjǫllni; en fyrir fótum honum[4] rann dvergr nǫkkurr; sá er Litr nefndr; en Þórr spyrnði fœti sínum á hann ok hratt honum í eldinn, ok brann hann. En þessa brennu sótti margs konar þjóð, fyrst at segja frá Óðni, at með honum fór Frigg ok valkyrjur ok hrafnar hans, en Freyr ók í kerru með gelti þeim, er Gullinbursti heitir eða Slíðrugtanni, en Heimdallr reið hesti þeim, er Gulltopr heitir, en Freyja ók[5] kǫttum sínum; þar kom[6] ok mikit fólk hrímþursa, ok bergrisar. Óðinn lagði

---

[1] Sål. U, W, T; sveinn, R. [2] en tf. R. [3] a, R. [4] Sål. W, T; hans, R. [5] Sål. U, T; mgl. W, R. [6] Sål. T; jfr. vorv, U; kømr, W, R.

á bálit gullhring þann, er Draupnir heitir; honum fylgði[1] sú náttúra, at ena níundu hverja nótt drupu af honum viii. gullhringar jafnhǫfgir; hestr Baldrs var leiddr á bálit með ǫllu reiði. En þat er at segja frá Hermóði, at hann reið níu nætr døkkva dala ok djúpa, svá at hann sá ekki, fyrr en hann kom til árinnar Gjallar ok reið á Gjallar-brúna; hon er þǫkð lýsigulli. Móðguðr er nefnd mær sú, er gætir brúarinnar; hon spurði hann at nafni eða at[2] ætt ok sagði, at enn fyrra dag riðu um brúna v. fylki dauðra manna — »en eigi dynr brúin minnr[3] undir einum þér ok eigi hefir þú lit dauðra manna — hví ríðr þú hér á helveg?«. Hann svarar at: »ek skal ríða til Heljar at leita Baldrs — eða hvárt hefir þú nakkvat sét Baldr á helvegi?«. Hon[4] sagði, at Baldr hafði þar riðit um Gjallar-brú — »en niðr ok norðr liggr helvegr«. Þá reið Hermóðr, þar til er hann kom at helgrindum; þá sté hann af hestinum ok gyrði hann fast, steig upp ok keyrði hann sporum, en hestrinn hljóp svá hart[5] yfir grindina, at hann kom hvergi nær. Þá reið Hermóðr heim til hallarinnar ok steig af hesti, gekk inn í hǫllina, sá þar sitja í ǫndugi Baldr, bróður sinn, ok dvalðisk Hermóðr þar of[6] nóttina. En at morni þá beiddisk Hermóðr af Helju, at Baldr skyldi ríða heim með honum, ok sagði, hversu mikill grátr var með ásum, en Hel sagði, at þat skyldi svá reyna, hvárt Baldr var svá ástsæll — »sem sagt er, ok ef allir hlutir í heiminum kykvir ok dauðir gráta hann, þá skal hann fara til ása aptr, en haldask með Helju, ef nǫkkurr mælir við eða vill eigi gráta«. Þá stóð Hermóðr upp, en Baldr leiddi[7] hann út ór hǫllinni ok tók hringinn Draupni ok sendi Óðni til minja, en Nanna sendi Frigg ripti ok enn fleiri gjafar, Fullu fingrgull. Þá reið Hermóðr aptr leið sína ok kom í Ásgarð ok sagði ǫll tíðendi, þau er

[1] síðan tf. W, R; mgl. T. [2] Sål. W, T; mgl. R. [3] jafnmjǫk, R, T. [4] En hon, R, T. [5] hátt, T; ok tf. R. [6] Sål. T; um, R, W. [7] Sål. W, T; leiðir, R.

hann hafði sét ok heyrt. Því næst sendu æsir um allan heim ørendreka at bíðja, at Baldr væri grátinn ór Helju, en allir gerðu þat menninir ok kykvendin ok jǫrðin ok steinarnir ok tré ok allr málmr, svá sem þú munt sét hafa, at þessir hlutir gráta, þá er þeir koma ór frosti ok í hita. Þá er sendimenn fóru heim ok hǫfðu vel rekit sín ørendi, finna þeir í helli nǫkkurum, hvar gýgr sat; hon nefndisk Þǫkk; þeir biðja hana gráta Baldr ór helju; hon segir:

50. Þǫkk mun gráta
þurrum tárum
Baldrs bálfarar;
kyks né dauðs
nautkak Karls sonar —
haldi[1] Hel því es hefr.

En þess geta menn, at þar hafi verit Loki Laufeyjarson, er flest hefir ilt gǫrt með ásum.

49. Þá mælti Gangleri: Allmiklu kom Loki á leið, er hann olli fyrst því, er Baldr var veginn, ok svá því, er hann varð eigi leystr frá Helju — eða hvárt varð honum þessa nǫkkut hefnt? — Hárr segir: Goldit var honum þetta, svá at hann mun lengi kennask. Þá er goðin váru orðin honum svá reið, sem ván var, hljóp hann á braut ok fal sik á[2] fjalli nǫkkuru, gerði þar hús ok iiii. dyrr, at hann mátti sjá ór húsinu í allar ættir[3], en opt um daga brá hann sér í lax-líki ok falsk þá þar sem heitir Fránangrsfors; þá hugsaði hann fyrir sér, hverja vél æsir mundu til finna, at taka hann í forsinum; en er hann sat í húsinu, tók hann língarn ok reið á ræksna[4], sem net er síðan gǫrt[5], en eldr brann fyrir honum. Þá sá hann, at æsir áttu skamt til hans, ok hafði Óðinn sét ór Hliðskjálfinni, hvar hann var; hann hljóp þegar upp ok út í ána, en[6] kastaði netinu framm á eldinn; en er æsir koma til hússins, þá gekk sá fyrst inn, er allra var vitrastr, er Kvasir heitir; ok er hann sá á eldinum fǫlskann, er netit hafði brunnit, þá skilði hann, at þat myndi vél vera til at taka fiska, ok sagði ásunum; því næst tóku þeir ok

[1] Sál. W, T; hafi, R. [2] Sál. W, U, T; í, R. [3] Sál. W, U; áttir, R, T. [4] mǫskva, U. [5] Sál. U, W, T; mgl. R. [6] Sál. U, W, T; ok, R.

gerðu sér net, eptir því sem þeir sá á fǫlskvanum[1] at Loki hafði gǫrt. Ok er búit var netit, þá fara æsir til árinnar ok kasta neti í forsinn; helt Þórr ǫðrum[2] nets-hálsi[2], en[3] ǫðrum heldu allir æsir, ok drógu netit; en Loki fór fyrir ok leggsk niðr í milli steina tveggja; drógu þeir netit yfir hann ok kendu, at kykt var fyrir, ok fara í annat sinn upp til forsins ok kasta út netinu ok binda við svá þungt, at eigi skyli undir mega fara; ferr þá Loki fyrir netinu, en er hann sér, at skamt var til sævar, þá hleypr hann upp yfir þinulinn ok rennir upp í forsinn. Nú sá æsirnir, hvar hann fór, fara enn upp til forsins ok skipta liðinu í tvá staði, en Þórr veðr þá eptir miðri ánni, ok fara svá út[4] til sævar. En er Loki sér tvá kosti — var þat lífs-háski at hlaupa á sæinn, en hinn[5] var annarr, at hlaupa[6] enn yfir netit, ok þat gerði hann, hljóp sem snarast yfir netþinulinn. Þórr greip eptir honum ok tók um hann, ok rendi hann í hendi honum, svá at staðar nam hǫndin við sporðinn, ok er fyrir þá sǫk laxinn aptrmjór. Nú var Loki tekinn griðalauss ok farit með hann í helli nǫkkurn. Þá tóku þeir iii. hellur ok settu á egg ok lustu rauf á hellunni hverri. Þá váru teknir sønir Loka, Váli ok Nari eða Narfi; brugðu æsir Vála í vargs líki, ok reif hann í sundr Narfa, bróður sinn; þá tóku æsir þarma hans ok bundu Loka með yfir þá iii. eggsteina[7]; stendr einn[7] undir herðum, annarr undir lendum, iii. undir knés-bótum, ok urðu þau bǫnd at járni. Þá tók Skaði eitrorm ok festi upp yfir hann, svá at eitrit skyldi drjúpa ór orminum í andlit honum, en Sigyn, kona hans, stendr[8] hjá honum ok heldr mundlaugu undir eitrdropa; en þá er full er mundlaugin, þá gengr hon ok slær út eitrinu, en meðan drýpr eitrit í andlit honum; þá kippisk hann svá

[1] Sål. W, T; uden art. R. [2] Sål. U, W, T; enda ǫðrum, R. [3] Sål. U, W, T; ok, R. [4] Sål. U, W, T; mgl. R. [5] Sål. W, T; hitt, R. [6] leita, W, T. [7] Sål. U (stoþ); steina einn, R; hellosteina. egg stendr ein, T eG stendr æinn, W. [8] sitr, W, T.

hart við, at jǫrð ǫll skelfr — þat kallið þér landskjálpta — þar liggr hann í bǫndum til ragna-røkrs.

**50.** Þá mælti Gangleri: Hver tíðendi eru at segja frá um ragna-røkr?; þess hefi ek eigi fyrr heyrt getit. Hárr segir: Mikil tíðendi eru þaðan at segja ok mǫrg, þau en fyrstu, at vetr sá kømr, er kallaðr er fimbulvetr; þá drífr snær ór ǫllum áttum; frost eru þá mikil ok vindar hvassir, ekki nýtr sólar; þeir vetr fara iii. saman ok ekki sumar milli, en áðr ganga svá aðrir iii. vetr, at þá er um alla verǫld orrostur miklar; þá drepask brœðr fyrir ágirni sakar ok engi þyrmir fǫður eða søni í manndrápum eða sifja-sliti; svá segir í Vǫluspá:

51. Brœðr munu berjask
ok at bǫnum verðask[1],
munu systrungar
sifjum spilla;
hart's með hǫlðum
hórdómr mikill,
skeggǫld, skalmǫld,
skildir klofnir,
vindǫld, vargǫld,
áðr verǫld steypisk.

Þá verðr þat, er mikil tíðendi þykkja, at úlfrinn gleypir sólna, ok þykkir mǫnnum þat mikit mein; þá tekr annarr úlfrinn tunglit, ok gerir sá ok mikit ógagn; stjǫrnurnar hverfa af himninum. Þá er ok þat til tíðenda, at svá skelfr jǫrð ǫll ok bjǫrg, at viðir losna ór jǫrðu upp, en bjǫrgin hrynja, en fjǫtrar allir ok bǫnd brotna ok slitna. Þá verðr Fenrisúlfr lauss; þá geysisk hafit á lǫndin, fyrir því at þá snýsk Miðgarðzormr í jǫtunmóð ok sœkir upp á landit; þá verðr ok þat, at Naglfar losnar, skip þat, er svá heitir; þat er gǫrt af nǫglum dauðra manna, ok er þat fyrir því varnanar vert, ef maðr deyr með óskornum nǫglum, at sá maðr eykr mikit efni til skipsins Naglfars, er goðin ok menn vildi seint, at gǫrt yrði. En í þessum sævar-gang flýtr Naglfar. Hrymr heitir jǫtunn, er stýrir Naglfari[2]; en Fenrisúlfr ferr með

[1] Sål. W; verða, U, R, T. [2] -fara, R, W, T.

gapanda munn ok er enn neðri[1] kjǫptr við jǫrðu[1], en enn øfri[1] við himin[1]; gapa myndi hann meira, ef rúm væri til; eldar brenna ór augum hans ok nǫsum. Miðgarðzormr blæss svá eitrinu, at hann dreifir lopt ǫll ok lǫg, ok er hann allógurligr, ok er hann á aðra hlið úlfinum. Í þessum gný klofnar himininn ok ríða þaðan Múspellz-sønir; Surtr ríðr fyrst ok fyrir honum ok eptir bæði eldr brennandi; sverð hans er gott mjǫk; af því skínn bjartara en af sólu; en er þeir ríða Bifrǫst, þá brotnar hon, sem fyrr er sagt. Múspellz-megir sœkja framm á þann[2] vǫll, er Vígríðr heitir; þar kømr ok þá Fenrisúlfr ok Miðgarðzormr; þar er ok þá Loki kominn ok Hrymr ok með honum allir hrímþursar, en Loka fylgja allir Heljar-sinnar, en Múspellz-sønir hafa einir[3] sér[3] fylking ok[4] er sú bjǫrt mjǫk. Vǫllrinn Vígríðr er c. rasta víðr á hvern veg. En er þessi tíðendi verða, þá stendr upp Heimdallr ok blæss ákafliga í Gjallarhorn ok vekr upp ǫll goðin, ok eiga þau þing saman. Þá ríðr[5] Óðinn til Mímisbrunnz ok tekr ráð af Mími fyrir sér ok sínu liði. Þá skelfr askr Yggdrasils ok engi hlutr er þá óttalauss á himni eða jǫrðu. Æsir herklæða[6] sik ok allir Einherjar ok sœkja framm á vǫllund; ríðr fyrstr Óðinn með gullhjálminn[7] ok fagra brynju ok geir sinn, er Gungnir heitir; stefnir hann móti Fenrisúlf, en Þórr framm á aðra hlið honum, ok má hann ekki duga honum, þvíat hann hefir fult fang at berjask við Miðgarðzorm. Freyr bersk móti Surti ok verðr harðr samgangr, áðr Freyr fellr; þat verðr hans bani, er hann missir þess ens góða sverðz, er hann gaf Skírni. Þá er ok lauss orðinn hundrinn Garmr, er bundinn er fyrir Gnipahelli; hann er et mesta forað; hann á víg móti Tý ok verðr hvárr ǫðrum at bana. Þórr berr bana-orð af Miðgarðzormi ok stígr þaðan braut ix. fet; þá fellr hann dauðr til jarðar fyrir eitri því, er

[1] neðri . . . jǫrðu, øfri . . . himin, sål. U (-ni), W, T; omv. R. [2] þing, R. [3] Sål. U, W, T (sér ei.); yfir sér, R. [4] Sål. U, W, T; mgl. R. [5] reið, R. [6] Sål. U, T; -væða, W, R. [7] Sål. U, T; uden art. W, R.

ormrinn blæss á hann. Úlfrinn gleypir Óðin; verðr þat hans bani, en þegar eptir snýsk framm Víðarr ok stígr ǫðrum fœti í neðra kjǫpt úlfsins; á þeim fœti hefir hann þann skó, er allan aldr hefir[1] verit til samnat; þat eru bjórar þeir, er menn sníða ór skóm sínum fyrir tám eða hæli[2]; því skal þeim bjórum braut kasta sá maðr, er at því vill hyggja, at koma ásunum at liði. Annarri hendi tekr hann enn øfra kjǫpt úlfsins ok rífr sundr gin hans, ok verðr þat úlfsins bani. Loki á orrostu við Heimdall, ok verðr hvárr annars bani. Því næst slyngr Surtr eldi yfir jǫrðina ok brennir allan heim; svá er sagt í Vǫluspá:

52. Hátt blæss Heimdallr,
horn er á lopti,
mælir[3] Óðinn
við Míms hǫfuð;
skelfr Yggdrasils
askr standandi,
ymr et aldna tré,
en jǫtunn losnar.

53. Hvat es með ǫ́sum?
hvat es með ǫlfum?
ymr allr Jǫtunheimr,
æsir ró á þingi;
stynja dvergar
fyr steindurum,
veggbergs vísir;
vituð ér enn eða hvat?

54. Hrymr ekr austan,
hefsk lind fyrir;
snýsk jǫrmungandr
í jǫtunmóði;
ormr knýr unnir,
ǫrn mun hlakka;
slítr nái niðfǫlr,
Naglfar losnar.

55. Kjóll ferr austan,
koma munu Múspellz[4]
of lǫg lýðir
en Loki stýrir;
þar ró fíflmegir
með freka allir;
þeim es bróðir
Býleists í fǫr.

56. Surtr ferr sunnan
með sviga lævi;
skínn af sverði
sól valtíva;
grjótbjǫrg gnata,
en gífr rata,
troða halir helveg,
en himinn klofnar.

---

[1] Mgl. R. [2] Sål. U, W, T; hæl, R. [3] mey, R. [4] Skal være Heljar.

57. Þá kømr Hlínar
harmr annarr framm,
es Óðinn ferr
við ulf vega,
en bani Belja
bjartr at Surti;
þar mun Friggjar
falla angan.

58. Gengr Óðins sonr
við ulf vega,
Víðarr of veg
at valdýri;
lætr hann megi Hveðrungs
mund of standa
hjǫr til hjarta;
þá es hefnt fǫður.

59. Gengr enn mæri
mǫgr Hlǫðynjar
neppr af[1] naðri
níðs ókvíðnum[2];
munu halir allir
heimstǫð ryðja,
es af móði drepr
Miðgarðs véurr.

60. Sól mun sortna,
søkkr fold í mar,
hverfa af himni
heiðar stjǫrnur;
geisar eimi
ok aldrnari,
leikr hǫr hiti
við himin sjalfan.

Hér segir enn svá:

61. Vígríðr heitir vǫllr,
es finnask vígi at
Surtr ok en svǫsu goð;
hundrað rasta
hann es á hverjan veg;
sá es þeim vǫllr of[3] vitaðr.

**51.** Þá mælti Gangleri: Hvat verðr þá eptir, er brendr er[4] heimr allr ok dauð goðin ǫll ok allir Einherjar ok alt mannfólk, ok hafið ér[5] áðr sagt, at hverr maðr skal lifa í nǫkkurum heimi um allar aldir? — Þá svarar Þriði: Margar eru þá vistir góðar ok margar illar; bazt er þá at vera á Gimle á himni, ok allgott er til góðs drykkjar þeim, er þat þykkir gaman, í þeim sal, er Brimir heitir; hann stendr á Ókólni[6]; sá er ok góðr salr, er stendr á Niðafjǫllum, gǫrr af rauðu gullu; sá heitir Sindri. Í þessum sǫlum skolu byggva góðir menn ok siðlátir. Á Nástrǫndum er mikill salr ok illr ok horfa[7] norðr dyrr; hann er[8] ofinn allr orma-

[1] Sål. W; at, R, T. [2] Rettere: ókvíðinn. [3] Sål. T; mgl. R, W. [4] himinn ok jǫrð ok tf. R; mgl. U, W, T. [5] Sål. T. [6] Sål. W; ok á himni, R; ordene stendr—salr, er mgl. T. [7] í tf. R. [8] ok tf. R.

hryggjum sem[1] vanda-hús[1], en orma-hǫfuð ǫll vitu inn í húsit ok blása eitri, svá at eptir salnum renna eitrár, ok vaða þær ár eiðrofar ok morðvargar, svá sem hér segir:

62. Sal veitk standa
sólu fjarri
Nástrǫndu á,
norðr horfa dyrr;
falla eitrdropar
inn of ljóra,
sá es undinn salr
orma hryggjum.

63. Skolu þar vaða
þunga strauma
menn meinsvara
ok morðvargar.

En í Hvergelmi er verst:
Þar kvelr Níðhǫggr
nái framm gengna.

52. Þá mælti Gangleri: Hvárt lifa nǫkkur goðin þá, eða er þá nǫkkur jǫrð eða himinn? — Hárr segir: Upp skýtr jǫrðunni þá ór sænum ok er þá grœn ok fǫgr, vaxa þá akrar ósánir. Víðarr ok Váli lifa, svá at eigi hefir særinn ok Surta-logi grandat þeim, ok byggva þeir á Iðavelli, þar sem fyrr var Ásgarðr, ok þar koma þá sønir Þórs, Móði ok Magni, ok hafa þar Mjǫllni. Því næst koma þar Baldr ok Hǫðr frá Heljar; setjask þá allir samt ok talask við ok minnask á rúnar sínar ok rœða of tíðendi þau, er fyrrum hǫfðu verit, of[2] Miðgarðzorm ok um Fenrisúlf; þá finna þeir í grasinu gulltǫflur þær, er æsirnir hǫfðu átt; svá er sagt:

64. Víðarr ok Váli
byggva vé goða,
þá es sortnar Surta logi;
Móði ok Magni
skolu Mjǫllni hafa
Vingnis at vígþroti.

En þar sem heitir Hoddmímisholt leynask menn ii. í Surtaloga, er svá heita, Líf ok Lífþrasir[3], ok hafa morgindǫggvar fyrir mat; en af þessum mǫnnum kømr svá mikil kynslóð, at byggvisk heimr allr; svá sem hér segir:

65. Líf ok Lífþrasir[4],
en þau leynask munu

---

[1] Mgl. W, T, U. [2] Sål. T, W ok, R. [3] Leif-, R, W, T. [4] Sål. U; Leif-, de øvr.

í holti Hoddmímis,
morgindǫggvar
þau[1] at mat hafa,
en þaðan af aldir alask.

Ok hitt mun þér undarligt þykkja, er sólin hefir getit dóttur eigi ófegri, en hon er, ok ferr sú þá stígu móður sinnar, sem hér segir:

66. Eina dóttur
berr alfrǫðull,
áðr hana fenrir fari;
sú skal ríða,
es regin deyja,
móður brautir mær.

En nú ef þú kant lengra framm at spyrja, þá veit ek eigi, hvaðan þér kømr þat, fyrir því at engan mann heyrða ek lengra segja framm[2] aldar-farit — ok njóttu nú, sem þú namt.

**53**. Því næst heyrði Gangleri dyni mikla hvern veg frá sér ok leit út á hlið sér, ok þá er hann sésk meirr um, þá stendr hann úti á sléttum velli, sér þá enga hǫll ok enga borg; gengr hann þá leið sína braut ok kømr heim í ríki sitt ok segir þau tíðendi, er hann hefir sét ok heyrt, ok eptir honum sagði hverr maðr ǫðrum þessar sǫgur. — En æsir setjask þá á tal ok ráða ráðum sínum ok minnask á þessar frásagnir allar, er honum[3] váru sagðar[3], ok gefa nǫfn þessi en sǫmu, er áðr eru nefnd, mǫnnum ok stǫðum þeim, er þar váru, til þess at þá er langar stundir liði, at menn skyldu ekki ifask í, at allir væri einir þeir æsir, er nú var frá sagt, ok þessir, er þá váru þau sǫmu nǫfn gefin. Þar var þá Þórr kallaðr ok er sá Ásaþórr enn gamli, [sá[5] er Ǫku-þórr, ok honum eru kend þau stórvirki, er Ektor gerði í Trójo. En þat hyggja menn, at Tyrkir hafi sagt frá Úlixes ok hafi þeir hann kallaðan[4] Loka, þvíat Tyrkir váru hans enir mestu óvinir[5]].

---

[1] er tf. R. [2] Sål. W, T; mgl. R. [3] Sål. R; nú (hér W) var sagt, W, T. [4] Sål. T; kallat, R, W. [5] sá—óvinir er måske et senere tillæg.

## SKÁLDSKAPARMÁL[1].

1. Einn maðr er nefndr Ægir eða Hlér; hann bjó í eyju[2] þeiri, er nú er kǫlluð Hlésey; hann var mjǫk fjǫlkunnigr. Hann gerði ferð sína til Ásgarðz, en[3] æsir vissu fyrir[4] ferð hans ok[4] var honum fagnat vel ok þó margir hlutir gǫrvir[4] með sjónhverfingum. Ok um kveldit, er drekka skyldi, þá lét Óðinn bera inn í hǫllina sverð ok váru svá bjǫrt, at þar af lýsti, ok var ekki haft ljós annat, meðan við drykkju var setit. Þá gengu æsir at gildi sínu ok settusk í hásæti xii. æsir þeir, er dómendr skyldu vera ok svá váru nefndir, Þórr, Njǫrðr, Freyr, Týr, Heimdallr, Bragi, Víðarr, Váli, Ullr, Hœnir, Forseti, Loki; — slíkt sama ásynjur, Frigg, Freyja, Gefjun, Iðunn, Gerðr, Sigyn, Fulla, Nanna. Ægi þótti gǫfugligt þar um at sjásk; veggþili ǫll váru þar tjǫlduð með fǫgrum skjǫldum; þar var ok áfenginn mjǫðr ok mjǫk drukkit. Næsti maðr Ægi sat Bragi, ok áttusk þeir við drykkju ok orða-skipti; sagði Bragi Ægi frá mǫrgum tíðendum, þeim er æsir hǫfðu átt. Hann hóf þar frásǫgn, at þrír æsir fóru heiman, Óðinn ok Loki ok Hœnir, ok fóru um fjǫll ok eyðimerkr, ok var ilt til matar. En er þeir koma ofan í dal nǫkkurn, sjá þeir øxna-flokk ok taka einn oxann ok snúa til seyðis; en er þeir hyggja, at soðit mun vera, raufa þeir seyðinn, ok var ekki soðit; ok í annat

---

[1] Tilf. af udg. [2] Sål. W, T; ey, R. [3] er tf. R. [4] Mgl. R.

sinn, er þeir rjúfa[1] seyðinn, þá er stund var liðin, ok var ekki soðit; mæla þeir þá sín á milli, hverju þetta mun gegna. Þá heyra þeir mál í eikina upp yfir sik, at sá, er þar sat, kvaðsk valda[2] því, er eigi soðnaði á seyðinum. Þeir litu til ok sat[3] þar ǫrn ok eigi lítill. Þá mælti ǫrninn: »vilið ér[4] gefa mér fylli mína af oxanum, þá mun soðna á seyðinum«. Þeir játa því. Þá lætr hann sígask ór trénu ok sezk á seyðinn ok leggr upp þegar et fyrsta lær oxans ii. ok báða bóguna. Þá varð Loki reiðr ok greip upp mikla stǫng ok reiðir af ǫllu afli ok rekr á kroppinn erninum. Ǫrninn bregzk við hǫggit ok flýgr upp; þá var fǫst stǫngin við bak[5] arnarins, en[6] hendr Loka við annan enda stangarinnar[7]. Ǫrninn flýgr hátt svá, at fœtr Loka[8] taka niðr grjót[9] ok urðir ok viðu; en hendr hans hyggr hann at slitna munu ór ǫxlum. Hann kallar ok biðr allþarfliga ǫrninn friðar, en hann segir, at Loki skal aldri lauss verða, nema hann veiti honum svardaga at koma Iðunni út of Ásgarð með epli sín, en Loki vill þat; verðr hann þá lauss ok ferr til lags-manna sinna; ok er eigi at sinni sǫgð fleiri tíðendi um þeira ferð, áðr þeir koma heim. En at ákveðinni stundu teygir Loki Iðunni út um Ásgarð í skóg nǫkkurn ok segir, at hann hefir fundit epli þau, er henni munu gripir í þykkja, ok bað, at hon skal hafa með sér sín epli ok bera saman ok hin. Þá kømr þar Þjazi jǫtunn í arnar-ham ok tekr Iðunni ok flýgr braut með ok í Þrymheim til bús síns. En æsir urðu illa við hvarf Iðunnar ok gerðusk þeir brátt hárir ok gamlir. Þá áttu þeir æsir þing ok spyrr[10] hverr[10] annan[10], hvat síðarst vissi til Iðunnar, en þat var sét síðarst, at hon gekk út ór Ásgarði með Loka. Þá var Loki tekinn ok fœrðr á þingit, ok var honum heitit bana eða píslum; en er hann varð hræddr, þá kvaðsk hann mundu sœkja eptir Iðunni í Jǫtun-

[1] Sål. U, W; raufa, R, T. [2] Sål. U, T; ráða, R, W. [3] sá, T og så lítinn. [4] Sål. T. [5] Sål. U, W, T; kropp, R. [6] Sål. U, T; ok, R. [7] Sål. T; jfr. U; mgl. R. [8] Mgl. R. [9] Med art. R. [10] Afrevet i R.

heima, ef Freyja vill ljá honum vals-hams, er hon á. Ok er hann fær vals-haminn, flýgr hann norðr í Jǫtunheima ok kømr einn dag til Þjaza jǫtuns; var hann róinn á sæ, en Iðunn var ein heima; brá Loki henni í hnotar-líki ok hafði í klóm sér ok flýgr sem mest. En er Þjazi kom heim ok saknar Iðunnar, tekr hann arnar-haminn ok flýgr eptir Loka ok dró arnsúg í flugnum. En er æsirnir sá, er valrinn flaug með hnotina ok hvar ǫrninn flaug, þá gengu þeir út undir Ásgarð ok báru þannig byrðar af lokarspánum. Ok þá er valrinn flaug inn of borgina, lét hann fallask niðr við borgarvegginn; þá slógu æsirnir eldi í lokarspánuna[1], en ǫrninn mátti eigi stǫðva sik[2], er hann misti valsins; laust þá eldinum í fiðri arnarins, ok tók þá af fluginn. Þá váru æsir[3] nær ok drápu Þjaza jǫtun fyrir innan ásgrindr, ok er þat víg allfrægt. En Skaði, dóttir Þjaza jǫtuns, tók hjálm ok brynju ok ǫll hervápn ok ferr til Ásgarðz, at hefna fǫður síns, en æsir buðu henni sætt ok yfirbœtr, ok et fyrsta, at hon skal kjósa sér mann af ásum ok kjósa at fótum ok sjá ekki fleira af. Þá sá hon eins mannz fœtr forkunnar-fagra ok mælti: — »þenna kýs ek, fátt mun ljótt á Baldri« — en þat var Njǫrðr ór Nóatúnum. Þat hafði hon ok í sættargǫrð sinni, at æsir skyldu þat gera, er hon hugði, at þeir skyldu eigi mega, at hlœgja hana. Þá gerði Loki þat, at hann batt um skegg geitar nǫkkurrar ok ǫðrum enda um hreðjar sér, ok létu þau ýmsi eptir ok skrækði hvárt tveggja[4] hátt; þá lét Loki fallask í kné Skaða[5], ok þá hló hon; var þá gǫr sætt af ásanna hendi við hana. Svá er sagt, at Óðinn gerði þat til yfirbóta við Skaða[6], at hann tók augu Þjaza ok kastaði upp á himin ok gerði af stjǫrnur ii. — Þá mælti Ægir: mikill þykki mér Þjazi fyrir sér hafa verit, eða hvers kyns var hann?. — Bragi svarar: Ǫlvaldi hét faðir

---

[1] Uden art. R, T. [2] Mgl. R. [3] Med art. R. [4] við tf. R; mgl. U, W, T. [5] Skaði, W. [6] Sál. U, W, T; hana, R.

hans, ok merki munu þér at þykkja, ef ek segi þér frá honum. Hann var mjǫk gullauðigr, en er hann dó ok sønir hans skyldu skipta arfi, þá hǫfðu þeir mæling á[1] gullinu, er þeir skiptu, at hverr skyldi taka munnfylli sína ok allir jafnmargar. Einn þeira var Þjazi, ii. Iði, iii. Gangr. En þat hǫfum vér orðtak nú með oss, at kalla gullit munntal þessa jǫtna, en vér felum í rúnum eða í skáldskap svá, at vér kǫllum þat mál eða orð[2] eða[2] tal[2] þessa jǫtna. — Þá mælti Ægir: Þat þykki mér vera vel fólgit í rúnum — ok enn mælti Ægir: Hvaðan af hefir hafizk sú íþrótt, er þér kallið skáldskap? — Bragi svarar: Þat váru uphǫf til þess, at goðin hǫfðu ósætt við þat fólk, er vanir heita, en þeir lǫgðu með sér friðstefnu ok settu grið á þá lund, at þeir gengu hvárir-tveggju til eins kers ok spýttu í hráka sínum[3]. En at skilnaði þá tóku goðin ok vildu eigi láta týnask þat griðamark ok skǫpuðu þar ór mann; sá heitir Kvasir, hann er svá vitr, at engi spyrr hann þeira hluta, er eigi kann hann órlausn. Ok hann fór víða um heim at kenna mǫnnum frœði, ok þá er hann kom at heimboði til dverga nǫkkurra, Fjalars ok Galars, þá kǫlluðu þeir hann með sér á einmæli ok drápu hann, létu renna blóð hans í tvau ker ok einn ketil, ok heitir sá Óðrørir, en kerin heita Són ok Boðn; þeir blendu hunangi við blóðit, ok varð þar af mjǫðr sá, er hverr, er af drekkr, verðr skáld eða frœða-maðr. Dvergarnir sǫgðu ásum, at Kvasir hefði kafnat í manviti, fyrir því at engi var þar svá fróðr, at spyrja kynni hann fróðleiks. Þá buðu þessir dvergar til sín jǫtni þeim, er Gillingr heitir, ok konu hans. Þá buðu dvergarnir Gillingi at róa á sæ með sér. En er þeir[4] fóru fyrir land framm, røru dvergarnir á[5] boða ok hvelfðu[6] skipinu. Gillingr var ósyndr ok týndisk hann, en dvergarnir réttu skip sitt ok røru til landz. Þeir sǫgðu konu hans þenna atburð, en hon kunni illa ok

---

[1] Sål. W, T; at, R. [2] Orð ta tal, R; orðatal, W; ortac, T. [3] Sål. U, W, T; sípa, R. [4] Mgl. R. [5] í, W, T. [6] Sål. U, W, T; hvelfði, R.

grét hátt. Þá spurði Fjalarr hana, ef henni myndi hugléttara, ef hon sæi út á sæinn, þar er hann hafði týnzk; en hon vildi þat; þá mælti hann við Galar bróður sinn, at hann skal fara upp yfir dyrnar, er hon gengi út, ok láta kvernstein falla í hǫfuð henni, ok talði sér leiðask óp hennar, ok svá gerði hann. Þá er þetta spurði Suttungr jǫtunn[1], sonr[2] Gillings, ferr hann til ok tók dvergana ok flytr á sæ út ok setr þá í flœðar-sker. Þeir biðja Suttung sér lífs-griða ok bjóða honum til sættar í fǫður-gjǫld mjǫðinn dýra, ok þat verðr at sætt með þeim. Flytr Suttungr mjǫðinn heim ok hirðir, þar sem heita Hnitbjǫrg, setr þar til gæzlu dóttur sína Gunnlǫðu. Af þessu kǫllum vér skáldskap Kvasis blóð eða dverka-drekku eða fylli eða nǫkkurs konar lǫg Óðrøris eða Boðnar eða Sónar eða fars-kost dverga, fyrir því at sá mjǫðr flutti þeim fjǫrlausn ór skerinu, eða Suttunga-mjǫð eða Hnitbjarga-lǫgr. — Þá mælti Ægir: Myrkt þykki mér þat mælt at kalla skáldskap með þessum heitum, en hvernig kómusk[3] þér[4] æsir at Suttunga-miði? — Bragi svarar: Sjá saga er til þess, at Óðinn fór heiman ok kom þar, er þrælar níu slógu hey; hann spyrr, ef þeir vili, at hann brýni ljá þeira. Þeir játa því. Þá tekr hann hein af belti sér ok brýndi ljána[5], en þeim þótti bíta ljárnir myklu betr ok fǫluðu heinina; en hann mat svá, at sá, er kaupa vildi, skyldi gefa við hóf, en allir kváðusk vilja ok báðu hann sér selja, en hann kastaði heininni í lopt upp; en er allir vildu henda, þá skiptusk þeir svá við, at hverr brá ljánum á háls ǫðrum. Óðinn sótti til náttstaðar til jǫtuns þess, er Baugi hét, bróðir Suttungs. Baugi kallaði ilt fjárhald sitt ok sagði, at þrælar hans níu hǫfðu drepizk, en talðisk eigi vita sér ván verkmanna. En Óðinn nefndisk fyrir honum Bǫlverkr; hann bauð at taka upp ix. manna verk fyrir Bauga, en mælti sér

---

[1] Sál. W, T; mgl. R. [2] Sál, W, U; bróðurson, R, T. [3] Sál. W, T; jfr. U; komu, R. [4] Sál. W; þeir, R, T. [5] Sál. W, T; mgl. R.

til kaups einn drykk af Suttunga-miði. Baugi kvazk[1] einskis ráð eiga af miðinum, sagði, at Suttungr vildi einn hafa, en fara kvezk hann mundu með Bǫlverki ok freista, ef þeir fengi mjǫðinn. Bǫlverkr vann um sumarit ix. manna[2] verk fyrir Bauga, en at vetri beiddi[3] hann Bauga leigu sinnar. Þá fara þeir báðir til[4] Suttungs[4]. Baugi segir Suttungi, bróður sínum, kaup þeira Bǫlverks, en Suttungr synjar þverliga hvers dropa af miðinum. Þá mælti Bǫlverkr til Bauga, at þeir skyldu freista véla nǫkkurra, ef þeir megi ná miðinum, en Baugi lætr þat vel vera. Þá dregr Bǫlverkr framm nafar þann, er Rati heitir, ok mælti, at Baugi skal bora bjargit, ef nafarrinn bítr. Hann gerir svá. Þá segir Baugi, at gǫgnum er borat bjargit, en Bǫlverkr blæss í nafars-raufina, ok hrjóta spænirnir upp í móti honum. Þá fann hann, at Baugi vildi svíkja hann, ok bað bora gǫgnum bjargit. Baugi boraði enn, en er Bǫlverkr blés annat sinn, þá fuku inn spænirnir. Þá brásk Bǫlverkr í orms-líki ok skreið í nafars-raufina, en Baugi stakk eptir honum nafrinum ok misti hans. Fór Bǫlverkr þar til, sem Gunnlǫð var, ok lá hjá henni iii. nætr, ok þá lofaði hon honum at drekka af miðinum iii. drykki. Í enum fyrsta drykk drakk hann alt ór Óðrøri, en í ǫðrum ór Boðn, í enum þriðja ór Són, ok hafði hann þá allan mjǫðinn. Þá brásk hann í arnar-ham ok flaug sem ákafast; en er Suttungr[5] sá flug arnarins, tók hann sér arnar-ham ok flaug eptir honum. En er æsir sá, hvar Óðinn flaug, þá settu þeir út í garðinn ker sín, en er Óðinn kom inn of Ásgarð, þá spýtti hann upp miðinum í kerin, en honum var þá svá nær komit, at Suttungr myndi ná honum, at hann sendi aptr suman mjǫðinn, ok var þess ekki gætt; hafði þat hverr, er vildi, ok kǫllum vér þat skáldfífla hlut[6]. En Suttunga-mjǫð gaf Óðinn ásunum ok þeim mǫnn-

[1] Sål. T; kvez, W; kvað, R; lezt, U. [2] Sål. U, W, T; manns, R. [3] Sål. W, T; beiddiz, R. [4] Sål. U, W, T; mgl. R. [5] Sål. T; jfr. U; þiazi (fejlskr.), R, W. [6] Sål. W, T; lit, R.

um, er yrkja kunnu. Því kǫllum vér skáldskapinn feng Óðins ok fund ok drykk hans ok gjǫf[1] ok drykk ásanna. — Þá mælti Ægir: Hversu á marga lund breytið ér[2] orðtǫkum skáldskapar, eða hversu mǫrg eru kyn skáldskaparins? — Þá mælti Bragi: Tvenn eru kyn þau, er greina skáldskap allan. — Ægir spyrr: Hver tvenn? — Bragi segir: Mál ok hættir. — Hvert máltak er haft til skáldskapar? — Þrenn er grein skáldskapar-máls. — Hver? — Svá at nefna hvern hlut, sem heitir; ǫnnur grein er sú, er heitir fornǫfn; en iii. máls-grein er[3] sú[3], er kǫlluð er kenning, ok er[4] sú grein svá sett, at vér kǫllum Óðin eða Þór eða Tý eða einhvern af ásum eða álfum, ok[5] hvern[5] þeira, er ek nefni til, þá tek ek með heiti af eign annars ássins eða get ek hans verka nǫkkurra; þá eignask hann nafnit, en eigi hinn, er nefndr var; svá sem vér kǫllum sig-Tý eða hanga-Tý eða farma-Tý — þat er þá Óðins heiti, ok kǫllum vér þat kent heiti; svá ok at kalla reiðar-Tý.

En þetta er nú at segja ungum skáldum, þeim er girnask at nema mál skáldskapar ok heyja sér orðfjǫlða með fornum heitum eða girnask þeir at kunna skilja þat, er hulit er kveðit, þá skili hann þessa bók til fróðleiks ok skemtunar. En ekki er at gleyma eða ósanna svá þessar frásagnir[6], at taka ór skáldskapinum fornar kenningar, þær er hǫfuðskáldin[7] hafa sér líka látit, en eigi skolu kristnir menn trúa á heiðin goð ok eigi á sannyndi þessa[8] sagna[8] annan veg en svá sem hér finnsk í uphafi bókar[9].

2. Nú[10] skal láta heyra dœmi[11], hvernig hǫfuðskáldin hafa látit sér sóma at yrkja eptir þessum heitum ok kenn-

---

[1] hans tf. R, T; mgl. W. [2] Sål. T. [3] Sål. W, T; mgl. R. [4] Mgl. R. [5] Sål. T, 757; at hverr, R; sætn. mgl. W. [6] Sål. U, T, W; sǫgur, R. [7] Sål. U, W, T; uden art. R. [8] Sål. W, T; þessar sagnar, R. [9] For ok eigi—bókar har U: né á sannask, at svá hafi verit. Hvad der er tilbage af stykket (det i udgaver så meningsløst kaldte Eptirmáli), er en yngre tilföjelse af samme art som Ws interpolationer i Prologus. Jfr. 757, Sn. E. II, 533. [10] Sål. W, T, 757; En, R, U. [11] Med art. R, U.

ingum, svá sem segir Arnórr jarlaskáld, at Óðinn[1] heiti Alfǫðr[2]:

1. Nú hykk slíðrhugaðs[3] segja,
[síð léttir mér stríða]
(þýtr Alfǫður[4]) ýtum
jarls kostu (brim hrosta).

Hér kallar hann ok skáldskapinn hrosta-brim Alfǫður. — Hávarðr halti kvað svá:

2. Nú es, jódraugar[5] ægis,
arnar flaug, ok bauga
hygg ek at heimboð þiggi
Hanga goðs, of[6] vangi.

Svá kvað Víga-Glúmr:

3. Lattisk herr með hǫttu
Hanga-Týs at ganga,
þóttit þeim at hætta
þekkiligt, fyr brekku.

Svá kvað Refr:

4. Opt kom (jarðar leiptra
es Baldr hniginn skaldi)
hollr at helgu fulli
Hrafnásar mér (stafna).

Svá kvað Eyvindr skáldaspillir:

5. Ok Sigurð[7],
hinns svǫnum veitti
hróka bjór
Haddingja vals
Farmatýs,
fjǫrvi næmðu
jarðráðendr
á Ǫglói.

Svá kvað Glúmr Geirason:

6. Þar vas (þrafna byrjar
þeim stýrðu[8] goð[8] Beima)
sjalfr í sœkialfi
Sigtýr Atals dýra.

Svá kvað Eyvindr[9]:

7. Gǫndul ok Skǫgul
sendi Gautatýr
at kjósa of konunga,
hverr Yngva ættar
skyldi með Óðni fara
ok í Valhǫllu vesa.

Svá kvað Úlfr Uggason:

8. Ríðr at vilgi víðu[10]
víðfrægr (en mér líða)
Hroptatýr (of hvápta
hróðrmǫl) sonar báli.

---

[1] Sål. U, T; hann, R, W. [2] Sål. U; All-, de øvr.; Alfaðir 757. [3] -hugat, R. [4] Sål. 757; Alfauðrs, U; Allfoðr, de øvr. [5] Sål. udg.; -um, alle. [6] Sål. R; af, de øvr. [7] Sigurðr, R. [8] Sål. U, 757; er stýrðu, R, W; stýrðu kyn, T. [9] enn tf. R, W, 757; mgl. U, T. [10] Sål. U; blíðu, de øvr.

Svá kvað Þjóðólfr enn hvinverski:

9. Valr lá þar á sandi
vitinn[1] enum eineygja
Friggjar faðmbyggvi;
fǫgnuðum dǫð slíkri[2].

Þat kvað Hallfrøðr:

10. Sannyrðum spenr sverða
snarr[3] þiggjandi viggjar
barrhaddaða byrjar
biðkv́ǫn[4] und[5] sik Þriðja.

Hér er þess dœmi, at jǫrð er kǫlluð kona Óðins í skáldskap. Svá er hér sagt at Eyvindr kvað:

11. Hermóðr ok Bragi,
kvað Hroptatýr,
gangið í gǫgn grami;
þvít konungr ferr,
sás kappi þykkir,
til hallar hinig.

Svá kvað Kormákr:

12. Eykr með ennidúki
jarðhljótr[6] día fjarðar
breyti, hún sás, beinan,
bindr. *Seið Yggr til Rindar.*

Svá kvað[7] Steinþórr:

13. Forngǫrvan[8] ák firnum
farms Gunnlaðar arma
horna fors at hrósa
hlítstyggs ok þó lítinn[9].

Svá kvað Úlfr Uggason:

14. Þar hykk sigrunni svinnum
sylgs Valkyrjur fylgja
heilags tafns ok hrafna.
*Hlaut innan svá minnum.*

Svá kvað Egill Skallagrímsson:

15. Blœtk eigi af því
bróður Vílis,
goðjaðar[10],
at gjarn[11] séak[12];
þó hefr Míms vinr
mér of fengit
bǫlva bœtr,
es et betra telk.

16. Gafumk íþrótt
ulfs of[13] bági,
vígi vanr,
vammi firða.

Hér er hann kallaðr goðjaðarr[14] ok Míms-vinr ok úlfs-bági. — Svá kvað Refr:

---

[1] vit-, R. [2] V. mgl. U, T, 757. [3] þvarr, R. [4] Sål. U; bif-, de øvr. [5] of, R. [6] Sål. K. G.; hlutr, lutr, alle. [7] sagði, R. [8] Sål. R, T, 757; -var, W; -vom, U. [9] Sål. T; litlum, de øvr. [10] Sål. Egilss.; alle: jarðar. [11] gjarna, R. [12] ek . . . sjá (sé), alle. [13] ok, R, W, T. [14] Sål. R; jarðar, W, U.

17. Þér eigu vér veigar,
Valgautr, salar brautar,
Fals, hrannvala[1] fannar,
framr, valdi tamr, gjalda.

Svá kvað Einarr skálaglamm:

18. Hljóta munk, né hlítik[2],
Hertýs, of þat frýju[3],
fyr ǫrþeysi at ausa
austr víngnóðar flausta.

Svá kvað[4] Úlfr[4] Uggason:

19. Kostigr ríðr at kesti,
kynfróðs þeims goð hlóðu
Hrafnfreistaðar, hesti
Heimdallr, at mǫg fallinn.

Svá er sagt í Eiríksmálum:

20. Hvat es þat drauma, —
kvað[5] Óðinn
ek hugðumk fyr dag rísa,
Valhǫll ryðja
fyr vegnu folki,
vakða[6]k Einherja,
bað[7]k upp rísa,
bekki at strá,
bjórker leyðra,
Valkyrjur vín bera,
sem vísi kvæmi[8].

Þat kvað Kormákr:

21. Algildan biðk aldar
allvald of mér halda
ýs bifvangi Yngva
ungr. *Fór Hroptr með Gungni.*

Þat kvað Þórálfr[9]:

22. Sagði hitt, es hugði,
Hliðskjalfar gramr sjǫlfum
hlífar styggs[10] þars hǫggnir
Háreks liðar vǫru.

Svá kvað Eyvindr:

23. Hinn es Surts
ór Sǫkkdǫlum
farmǫgnuðr
fljúgandi bar.

Svá kvað Bragi:

24. Þat erumk sýnt[11], at snimma
sonr Aldafǫðrs vildi
afls við úri þaíðan
jarðar reist of freista.

Svá kvað Einarr:

---

[1] Sål. W, T; valar, R, 757; -mara, U. [2] hlitir, R, W, T, 757, jfr. U. [3] Sål. U, R; freyju, de øvr. [4] Sål. U, W, T; sem U. kvað, R. [5] Sål. W; mgl. U, R; er ec, T; kv. Ó., mgf. 757. [6] Sål. W, 757; vekða, de øvr. [7] Sål. W; beidda, 757; bæða, de øvr. [8] Sål. T, U, 757; komi, R, W. [9] Sål. W. 757; -ólfr, R, T; -valdr, U. [10] Sål. U; styggr, de øvr. [11] Sål. U; sent, R, W, T; snemt, 757.

25. Þvít fjǫlkostigr flestu
flestr ræðr við son Bestlu
(tekit[1] hefk[1] morðs til mærðar)
mæringr an þú færa.

Svá kvað Þorvaldr blǫnduskáld:

26. Nú hefk mart
í miði greipat
burar[2] Bors,
Búra arfa.

3. Hér skal heyra, hvé skáldin hafa kent skáldskapinn eptir þessum heitum, er áðr eru rituð, svá sem er, at kalla Kvasis-dreyra ok dverga-skip, dverga-mjǫð, jǫtna-mjǫð, Suttunga-mjǫð, Óðins-mjǫð, Ása-mjǫð, fǫður-gjǫld jǫtna, lǫgr Óðrøris ok Boðnar ok Sónar ok fyllr[3], lǫgr Hnitbjarga, fengr ok fundr ok farmr ok gjǫf Óðins, svá sem hér er kveðit, er orti Einarr skálaglamm:

27. Hugstóran biðk heyra
(heyr, jarl, Kvasis dreyra)
foldar vǫrð á fyrða
fjarðleggjar brim dreggjar.

Ok sem kvað Einarr enn skálaglamm:

28. Ullar gengr of alla
asksǫgn þess, es hvǫt magnar
byrgis bǫðvar sorgar,
bergs geymilǫ́[4] dverga.

Svá sem kvað Ormr Steinþórsson:

29. At væri borit bjórs
bríkar ok mitt lík
(rekkar nemi) dauðs (drykk
Dvalins) í einn sal.

Ok sem Refr kvað:

30. Grjótaldar ték[5] gildi
geðreinar Þorsteini;
Bergmœra glymr bára,
biðk lýða kyn hlýða.

Svá sem kvað Egill:

31. Buðumk hilmir lǫð,
þar[6] ák hróðrs of kvǫð,
bark Óðins mjǫð
á Engla bjǫð.

Ok sem kvað Glúmr Geirason:

32. Hlýði, hapta beiðis,
hefk, mildingar[7], gildi;
því biðjum[8] vér þagnar[9],
þegna tjón at[10] fregnum.

[1] Sål. U, W, T, 757; væri ek, R. [2] borar, R. [3] Sål. R, T; jfr. fullr, 757; mgl. de øvr. [4] Sål. K. G.; grumila, grymila, grynnila, alle. [5] Sål. udg.; rær, R; ter, T; tær, W; terr, 757; tel, U. [6] Sål. T, 757; þat, R mgl. W; nú, U. [7] Sål. udg.; mildinga, alle (jfr. dog W). [8] Sål. alle, undt. R: bjóðum. [9] þǫgnar skr. R, T, U, W. [10] af, R.

Ok sem kvað Eyvindr:

33. Viljak hljóð[1]
at Hárs[2] líði,
meðan Gillings
gjǫldum yppik,
meðan hans ætt
í hverlegi
galga farms
til goða teljum.

Svá sem Einarr kvað skálaglamm:

34. Eisar vágr[3] fyr (vísa
verk) Rǫgnis mér (hagna[4])
[þýtr Óðrøris alda]
(aldr) [hafs við fles galdra].

Ok enn sem hann kvað:

35. Nús þats Boðnar bára,
bergsaxa, tér vaxa,
gervi í hǫll ok heyri[5]
hljóð fley jǫfurs þjóðir.

Ok sem kvað Eilífr Guðrúnarson:

36. Verðið[6] ér[6], alls orða
oss grœr of kon mœran[7]
á sefreinu Sónar
sáð, vingjǫfum ráða.

Svá sem kvað Vǫlu-Steinn:

37. Heyr Míms vinar mína[8]
(mér es fundr gefinn Þundar)
við góma sker glymja
glaumbergs, Egill[9], strauma.

Svá kvað Ormr Steinþórsson:

38. Seggir þurfut ala ugg,
engu snýk í Viðurs feng
háði (kunnum hróðrsmíð
haga), of minn brag.

Svá kvað Úlfr Uggason:

39. Hjaldrgegnis[10] ték[11] hildar
herreifum[12] Áleifi
(hann vilk at gjǫf Grímnis)
geðfjarðar[13] lǫ́ (kveðja).

Skáldskapr er kallaðr sjár eða lǫgr dverganna, fyrir því at Kvasis blóð var lǫgr í Óðrøri, áðr mjǫðrinn væri gǫrr, ok þar gerðisk hann í katlinum, ok er hann kallaðr fyrir því hverlǫgr Óðins, svá sem kvað Eyvindr ok fyrr var ritat:

40. Meðan hans ætt
í hverlegi
galga farms
til goða teljum.

---

[1] hlið, R. [2] Hans, R. [3] Sål. W, T; vargr, de øvr. [4] hǫgna, alle. [5] Sål. K. G.; hlýði, alle (v. mgl. U). [6] Sål. T, U, W, 757 (þer); verðr ei, R. [7] Sål. U; mærar, de øvr. [8] mima, R. [9] Sål. W, U, 757; egils, R, T. [10] Sål. U; hoddmildum, de øvr. [11] Sål. Svb. Eg.; tel ek, U; ter, de øvr. [12] Sål. U; hug-, de øvr. [13] geðniarðar, R.

Enn er kallaðr skáldskaprinn far eða líð dverganna; líð heitir ǫl ok líð heitir skip; svá er tekit til dœma, at skáldskapr er nú kallaðr fyrir því skip dverga, svá sem hér segir:

41. Bæði[1] ák til brúðar
bergjarls ok skip dverga
sollinn vind at senda
seinfyrnd gǫtu eina.

4. Hvernig skal kenna Þór? — Svá at kalla hann son Óðins ok Jarðar, faðir Magna ok Móða ok Þrúðar, verr Sifjar, stjúpfaðir Ullar, stýrandi ok eigandi Mjǫllnis ok megingjarða, Bilskirnis, verjandi Ásgarðz, Miðgarðz, dólgr ok bani jǫtna ok trǫllkvinna, vegandi Hrungnis, Geirrøðar, Þrívalda, dróttinn Þjálfa ok Rǫsku, dólgr Miðgarðzorms, fóstri Vingnis ok Hlóru; svá kvað Bragi skáld:

42. Vaðr lá Viðris arfa
vilgi slakr, es rakðisk,
á Eynefis ǫndri,
Jǫrmungandr at sandi.

Svá kvað Ǫlvir hnúfa:

43. Œstisk allra landa
umbgǫrð ok sonr Jarðar.

Svá kvað Eilífr:

44. Vreiðr[2] stóð Vrǫsku[2] bróðir,
vá gagn faðir Magna;
skelfra Þórs né Þjalfa
þróttar steinn við ótta.

Ok sem kvað Eysteinn Valdason:

45. Leit á brattrar[3] brautar[3]
baug hvassligum augum,
œstisk áðr at flausti
ǫggs búð, faðir Þrúðar.

Enn kvað Eysteinn:

46. Sín bjó Sifjar rúni
snarla framm með karli
(hornstraum getum Hrímnis
hrœra) veiðar-fœri.

Ok enn kvað hann:

47. Svá brá viðr, at (sýjur),
seiðr (rendu[4] framm breiðar)
jarðar, út at borði
Ulls mágs[5] hnefar skullu.

Svá kvað Bragi:

---

[1] Teþi, R. [2] Uden v alle. [3] Sål. W; brattar brautir, R, U; v. mgl. T. [4] Sål. K. G.; rendi, alle. [5] Sål. W T; magar (?), R.

48. Hamri fórsk í hœgri
hǫnd, þás allra landa,
œgir ǫflugbǫrðu[1],
endiseiðs[2] of[2] kendi.

Svá kvað Gamli:

49. Meðan gramr, hinns svik samðit[3],
snart Bilskirnis, hjarta,
grundar fisk með grandi
gljúfrskeljungs nam rjúfa.

Svá kvað Þorbjǫrn dísarskáld:

50. Þórr hefr Yggs með ǫ́rum
Ásgarð af þrek varðan.

Svá kvað Bragi:

51. Ok borðróins barða
brautar hringr enn ljóti
á haussprengi Hrungnis[4]
harðgeðr neðan starði.

Enn kvað Bragi:

52. Vel hafið yðrum eykjum
aptr, Þrívalda[5], haldit
simbli sumbls of mærum,
sundrkljúfr níu hǫfða.

Svá kvað Eilífr:

53. Þrøngvir gein við þungum
þangs rauðbita tangar
kveldrunninna kvinna
kunnleggs alinmunni.

Svá kvað Úlfr[6] Uggason[6]:

54. Þjokkvaxinn[7] kvazk[8] þykkja
þiklingr[9] firinmikla
hafra njóts at hǫfgum[11]
hætting megindrætti.

Svá kvað enn[10] Úlfr:

55. Fullǫflugr lét fellir
fjallgauts hnefa skjalla
(ramt mein vas þat[11]) reyni
reyrar[12] leggs við eyra.

Ok[13] enn kvað Úlfr:

56. Víðgymnir laust Vimrar
vaðs af frǿnum naðri
hlusta grunn við hrǫnnum.
*Hlaut innan svá minnum.*

Hér er hann kallaðr jǫtunn Vimrar-vaðs; á heitir Vimur, er Þórr óð, þá er hann sótti til Geirrøðargarða. — Svá[14] kvað Vetrliði skáld[15]:

---

[1] Sál. udg.; -barða, alle (bara, U). [2] -skeiðs af, R. [3] Sál. U; samði, de øvr. [4] Denne linje mgl. R. [5] -valdra, R. [6] Sál. U; Bragi, R, W; v. mgl. T. [7] Sál. udg.; -vǫxnum, alle. [8] kvez, U; kvað, R, W. [9] Sál. udg.; þikling, R, W; -ings, U. [10] Fra U; mgl. de øvr. [11] Mgl. R. [12] reyrǫz, R. [13] Sál. W; svá, T; mgl. R. [14] Ok svá, R, T. [15] Sál. U, W, T; mgl. R.

57. Leggi brauzt þú Leiknar,
lamðir[1] Þrívalda,
steypðir Starkeði[2],
stétt[3] of Gjǫlp dauða.

Svá[4] kvað Þorbjǫrn dísarskáld:

58. Ball í Keilu kolli,
Kjallandi brauzt alla,
áðr drapt Lút ok Leiða,
lézt dreyra Búseyru;
heptir[5] Hengjankjǫptu,
Hyrrokkin dó fyrri,
þó vas snemr en sáma
Svívǫr numin lífi[6].

5. Hvernig skal kenna Baldr? — Svá, at kalla hann son Óðins ok Friggjar, ver Nǫnnu, faðir Forseta, eigandi Hringhorna ok Draupnis, dólgr Haðar, Heljar-sinni, Grátagoð. Úlfr Uggason hefir kveðit eptir sǫgu Baldrs langt skeið í Húsdrápu, ok rituð eru[7] áðr dœmi til þess, er Baldr er svá kendr.

6. Hvernig skal kenna Njǫrð? — Svá, at kalla hann Vana[8]-guð eða Vana-nið eða Van ok fǫður Freys ok Freyju, fégjafa[9] guð; svá segir Þórðr Sjáreksson:

59. Varð sjǫlf suna[10],
nama snotr una,
Kjalarr of tamði,
kvǫ́ðut Hamði,
Goðrún bani,
goðbrúðr vani,
heldr vel mara,
hjǫrleik spara.

Hér er þess getit, er Skaði gekk frá Nirði, sem fyrr er ritat.

7. Hvernig skal kenna Frey? — Svá, at kalla hann son Njarðar, bróður Freyju ok enn Vana-guð ok Vana-nið, ok Vanr ok árguð, ok fégjafa. Svá kvað Egill Skallagrímsson:

60. Þvít Grjótbjǫrn
of gœddan hefr
Freyr ok Njǫrðr
at féar-afli[11].

Freyr er kallaðr Belja-dólgr, svá sem kvað Eyvindr skáldaspillir:

61. Þás útrǫst
jarla bági
Belja dolgs
byggva vildi.

[1] Sål. U, W, T; limðir, R. [2] Stal-, R. [3] stóttu, R. [4] Ok svá, R. [5] hepp ok, R, T. [6] liva, R. [7] Sål. T; er (og: ritat), R, W. [8] Vagna-, R; vanga, T, W. [9] Sål. U, W, T, 757; gefianda (fejlskr.), R. [10] sonar, R. [11] Svá—afli mgl. U, T.

Hann er[1] eigandi Skíðblaðnis ok galtar þess, er Gullinbursti heitir, svá sem hér er[2] sagt[2]:

62. Ívalda sønir
gengu í árdaga
Skíðblaðni at skapa[3],
skipa bazt,
skírum Frey
nýtum Njarðar bur.

Svá segir Úlfr Uggason:

63. Ríðr á bǫrg til borgar
bǫðfróðr sonar Óðins
Freyr ok folkum stýrir
fyrstr[4] enum golli byrsta[4].

Hann heitir ok Slíðrugtanni.

8. Hvernig skal Heimdall kenna? — Svá, at kalla hann son níu mœðra eða[5] vǫrð goða, svá sem fyrr er ritat, eða Hvíta-ás, Loka-dólg, mensœkir Freyju. Heimdalar hǫfuð heitir sverð[6]; svá er sagt, at hann var lostinn mannz-hǫfði í gǫgnum; um þat[7] er kveðit í Heimdalargaldri, ok er síðan kallat hǫfuð mjǫtuðr Heimdalar; sverð heitir mannz mjǫtuðr. Heimdallr er eigandi Gulltops; hann er ok tilsœkir Vágaskers ok Singasteins; þá deilði hann við Loka um Brísingamen; hann heitir ok Vindlér. Úlfr Uggason kvað í Húsdrápu langa stund eptir þeiri frásǫgu, ok[8] er þess þar getit, at þeir váru í sela-líkjum. Hann[9] er[9] ok sonr Óðins.

9. Hvernig skal kenna Tý? — Svá, at kalla hann Einhenda-ás ok Úlfs-fóstra, víga-guð, son Óðins.

10. Hvernig skal kenna Braga? — Svá, at kalla hann Iðunnar ver, frumsmið bragar ok enn síðskeggja ás — af hans nafni er sá kallaðr skeggbragi, er mikit skegg hefir —, ok sonr Óðins.

11. Hvernig skal kenna[8] Víðar? — Hann má kalla enn þǫgla ás, eiganda járnskós, dólg ok bana Fenrisúlfs, hefniás goðanna, byggviás fǫðurtopta ok son Óðins, bróður ásanna.

12. Hvernig skal kenna Vála? — Svá, at kalla hann

[1] Mgl. R. [2] Sål. U, W, T; segir, R. [3] Sål. U; skipa, T, W, R. [4] Sål. U; fyrst ok gulli byrstum, R, W, T. [5] Sål. U, W, T; mgl. R. [6] foran hǫfuð, W. [7] Sål. U, T, W; hann, R. [8] Mgl. R. [9] Sål. U; mgl. R, T; hele sætn. mgl. W.

son Óðins ok Rindar, stjúpson[1] Friggjar, bróður ásanna, hefniás Baldrs, dólg Haðar ok bana hans, byggvanda fǫðurtopta[2].

13. Hvernig skal kenna Hǫð? — Svá, at kalla hann Blinda-ás, Baldrs bana, skjótanda Mistilteins, son Óðins, Heljar-sinna, Vála-dólg.

14. Hvernig skal kenna Ull? — Svá, at kalla hann son Sifjar, stjúp[3] Þórs, ǫndur-ás, boga-ás, veiði-ás, skjaldar-ás.

15. Hvernig skal kenna Hœni? — Svá, at kalla hann sessa eða sinna eða mála Óðins ok enn skjóta ás ok enn langa fót ok aurkonung.

16. Hvernig skal kenna Loka? — Svá, at kalla hann[4] son Fárbauta ok Laufeyjar[5], Nálar, bróður Býleists ok Helblinda, fǫður Vánargandz — þat er Fenrisúlfr — ok Jǫrmungandz — þat er Miðgarðzormr — ok Heljar ok Nara ok Ála, frænda ok fǫður-bróður, vár[6]-sinna ok sessa Óðins ok ása, heimsœki ok kistu-skrúð Geirrøðar, þjófr jǫtna, hafrs ok Brísingamens ok Iðunnar epla, Sleipnis frænda, ver Sigynjar, goða dólgr, hárskaði Sifjar, bǫlva-smiðr, enn slœgi áss, rœgjandi[7] ok vélandi goðanna, ráðbani Baldrs, enn bundni áss[8], þrætu-dólgr Heimdalar ok Skaða. Svá sem hér segir Úlfr Uggason:

64. Ráðgegninn bregðr ragna
rein at Singasteini
frægr við firna-slœgjan[9]
Fárbauta mǫg[10] vári;
móðǫflugr ræðr mœðra
mǫgr hafnýra fǫgru,
kynnik, áðr ok[11] einnar
átta, mærðar þǫ́ttum.

Hér er þess getit, at Heimdallr er sonr níu mœðra.

17. Nú skal enn segja dœmi, af hverju þær kenningar eru, er nú váru ritaðar, er áðr váru eigi dœmi til sǫgð, svá sem Bragi sagði Ægi, at Þórr var farinn í Austrvega at berja

[1] Sål. alle, undt. R: stjúp. [2] túna, U, W, 757. [3] stjúpson, U, W, 757. [4] Sål. U, T, 757; mgl. W, R. [5] ok tf. U, W, 757. [6] Sål. U, T, (ver 757); mgl. R, W. [7] -anda, R. [8] Mgl. R. [9] Sål. W, T; slœgjum, R. [10] Sål. W; mǫgr, R, T. [11] en, R; at, W.

trǫll, en Óðinn reið Sleipni í Jǫtunheima ok kom til þess jǫtuns, er Hrungnir hét. Þá spyrr Hrungnir, hvat manna sá er með gullhjálminn, er ríðr lopt ok lǫg, ok segir, at hann á furðu-góðan hest. Óðinn sagði, at þar vill hann veðja fyrir hǫfði sínu, at engi hestr skal vera jafngóðr í Jǫtunheimum. Hrungnir segir, at sá er góðr hestr, en hafa lézk hann mundu myklu stórfetaðra hest — sá heitir Gullfaxi. Hrungnir varð reiðr ok hleypr upp á hest sinn ok hleypir eptir honum ok hyggr at launa honum ofrmæli. Óðinn hleypir[1] svá mikit, at hann var á ǫðru leiti fyrir, en Hrungnir hafði[2] svá mikinn[2] jǫtunmóð, at hann fann eigi fyrr en hann kom[3] inn of ásgrindr. Ok er hann kom at hallar-durum, buðu æsir honum til drykkju; hann gekk í hǫllina ok bað fá sér at[4] drekka[4]; váru þá teknar þær skálir, er Þórr var vanr at drekka af[5], ok snerti Hrungnir ór hverri. En er hann gerðisk drukkinn, þá skorti eigi stór orð, hann lézk skyldu taka upp Valhǫll ok fœra í Jǫtunheima, en søkkva Ásgarði, en drepa goð ǫll, nema Freyju ok Sif vill hann heim hafa[6] með sér, ok[7] Freyja ein[8] þorir[9] þá at skenkja honum, ok drekka lézk hann mundu[10] alt ása ǫl. En er ásum leiddisk ofryrði[11] hans, þá nefna þeir Þór. Því næst kom Þórr í hǫllina ok hafði[12] á lopti hamarinn ok var allreiðr ok spyrr, hverr því ræðr, er jǫtnar hundvísir skolu þar drekka, eða hverr seldi Hrungni grið at vera í Valhǫll eða hví Freyja skal skenkja honum sem at gildi ása. Þá svarar Hrungnir ok sér ekki vinar-augum til Þórs, sagði, at Óðinn bauð honum til drykkju ok hann var á hans griðum. Þá mælti Þórr, at þess boðs skal Hrungnir iðrask, áðr hann komi út. Hrungnir segir, at Ásaþór er þat lítill frami

---

[1] Sål. U, W, T; hleypði, R. [2] Sål. U, W, T; var í svá myklum, R. [3] Sål. U, T; sótti, R; þæytti, W. [4] Sål. U, W, T; drykkju, R. [5] Sål. U, W, T; or, R. [6] Sål. U, W, T; fœra, R. [7] Sål. T, W; en, R; mgl. U. [8] Sål. U, W, T; mgl. R. [9] Sål. U, W, T; fór, R. [10] Sål. U, W; munu, R, T. [11] -efli, R. [12] uppi tf. R, T; mgl. U, W.

at drepa hann vápnlausan, hitt er meiri hugraun, ef hann þorir at[1] berjask við hann at landa-mæri á Grjótúnagǫrðum — »ok hefir þat verit mikit fólsku-verk, sagði hann, er ek lét eptir heima skjǫld minn ok hein, en ef ek hefða hér vápn mín, þá skyldu vit nú reyna hólmgǫnguna, en at ǫðrum kosti legg ek þér við níðings-skap, ef þú vill drepa mik vápnlausan«. Þórr vill fyrir engan mun bila at koma til einvígis, er honum var hólmr skoraðr, þvíat engi hafði[2] honum þat fyrr veitt. Fór þá Hrungnir braut leið sína ok hleypði ákafliga, þar til er hann kom í Jǫtunheima, ok varð[3] hans ferð[4] allfræg með jǫtnum ok þat, at stefnu-lag var komit á með þeim Þór; þóttusk jǫtnar hafa mikit í ábyrgð, hvárr sigr fengi; þeim var illz ván af[5] Þór, ef Hrungnir léti[6], fyrir því at hann var þeira sterkastr. Þá gerðu jǫtnar mann á Grjótúnagǫrðum af leiri, ok var hann ix. rasta hár en þriggja breiðr undir hǫnd, en ekki fengu þeir hjarta svá mikit, at honum sómði, fyrr en þeir tóku ór[7] meri[7] nǫkkurri[7], ok varð honum þat eigi stǫðugt, þá er Þórr kom. Hrungnir átti hjarta þat, er frægt er, af hǫrðum steini ok tindótt með iii. hornum, svá sem síðan er gǫrt[8] ristu-bragð þat, er Hrungnis-hjarta heitir; af steini var ok hǫfuð hans; skjǫldr hans[9] var ok steinn, víðr ok þjokkr, ok hafði hann skjǫldinn fyrir sér, er hann stóð á Grjótúnagǫrðum ok beið Þórs, en hein hafði hann fyrir vápn ok reiddi of ǫxl ok var ekki dælligr. Á aðra hlið honum stóð leirjǫtunninn, er nefndr er Mǫkkurkálfi, ok var hann allhræddr; svá er sagt, at hann meig, er hann sá Þór. Þórr fór til hólmstefnu ok með honum Þjálfi. Þá rann Þjálbi framm at, þar er Hrungnir stóð, ok mælti til hans: »þú stendr óvarliga jǫtunn, hefir skjǫldinn fyrir þér, en Þórr hefir sét þik ok ferr hann et

---

[1] Mgl. R. [2] Sål. U, W, T; hefir, R. [3] Sål. U, T; var, R, W. [4] Sål. W, U, T (foran með); fǫr (foran hans), R. [5] Sål. U, W, T; at, R. [6] Sål. U, W, T; létiz, R. [7] ok man nokkvorn, R (fejllæsn.). [8] var tf. R. [9] Sål. U, W; mgl. R, T.

neðra í jǫrðu, ok mun hann koma neðan at þér«. Þá skaut Hrungnir skildinum undir fœtr sér ok stóð á, en tvíhendi heinina. Því næst sá hann eldingar ok heyrði þrumur stórar; sá hann þá Þór í ásmóði, fór hann ákafliga ok reiddi hamarinn ok kastaði um langa leið at Hrungni. Hrungnir fœrir upp heinina báðum hǫndum ok[1] kastar í mót; mœtir hon hamrinum á flugi[2], ok brotnar sundr heinin; fellr annarr hlutr á jǫrð, ok eru þar af orðin ǫll heinberg; annarr hlutr brast í hǫfði Þór, svá at hann fell framm á jǫrð; en hamarrinn Mjǫllnir kom í mitt hǫfuð Hrungni ok lamði hausinn í smán[3] mola, ok fell hann framm yfir Þór, svá at fótr hans lá of háls Þór. En Þjálfi vá at Mǫkkurkálfa, ok fell hann við lítinn orðs-tír. Þá gekk Þjálfi til Þórs ok skyldi taka fót Hrungnis af honum ok gat hvergi valdit; þá gengu til æsir allir, er þeir spurðu, at Þórr var fallinn, ok skyldu taka fótinn af honum ok fengu hvergi komit. Þá kom til Magni, sonr Þórs ok Járnsǫxu; hann var þá þrínættr[4]; hann kastaði fœti Hrungnis af Þór ok mælti: »sé þar ljótan harm faðir, er ek kom svá síð; ek hygg, at jǫtun þenna myndak hafa lostit í hel með hnefa mínum[5], ef ek hefða fundit hann«. Þá stóð Þórr upp ok fagnaði vel søni sínum ok sagði, at[6] hann myndi[6] verða mikill[6] fyrir sér — »ok vil ek, sagði hann, gefa þér hestinn Gullfaxa, er Hrungnir hefir[7] átt«. Þá mælti Óðinn ok sagði, at Þórr gerði rangt, er hann gaf þann enn góða hest gýgjar-søni, en eigi fǫður sínum. Þórr fór heim til Þrúðvanga, ok stóð heinin í hǫfði honum. Þá kom til vǫlva sú, er Gróa hét, kona Aurvandils ens frœkna; hon gól galdra sína yfir Þór, til þess er heinin losnaði. En er Þórr fann þat ok þótti þá ván, at braut myndi ná heininni, þá vildi hann launa Gró lækningina ok gera hana fegna, sagði henni þau tíðendi, at hann hafði vaðit norðan yfir

---

[1] Sál. U, T; mgl. W, R. [2] heinin tf. R. [3] Sál. U, R; smá, W, T. [4] -vetr, R. [5] Sál. U, W, T; mer, R. [6] Sál. U, W, T; hann mundu . . . . mikinn, R. [7] Sál. U; hafði, de øvr.

Élivága ok hafði borit í meis á baki sér Aurvandil norðan ór Jǫtunheimum, ok þat til jartegna, at ein tá hans hafði staðit ór meisinum ok var sú frørin, svá at Þórr braut af ok kastaði upp á himin ok gerði af stjǫrnu þá, er heitir Aurvandilstá. Þórr sagði, at eigi myndi langt til at Aurvandill myndi heim koma[1], en Gróa varð svá fegin, at hon munði enga galdra, ok varð heinin eigi lausari ok stendr enn í hǫfði Þór; ok er þat boðit til varnanar at kasta hein of gólf þvert, þvíat þá hrœrisk heinin í hǫfði Þór. Eptir þessi sǫgu hefir ort Þjóðólfr hvinverski í Haustlǫng[2]. — Þá mælti Ægir: Mikill þótti mér Hrungnir fyrir sér. Vann Þórr meira þrekvirki nǫkkut, þá er hann átti við trǫll? — Þá svarar Bragi:

18. Mikillar frásagnar er þat vert, er Þórr fór til Geirrøðargarða; þá hafði hann eigi hamarinn Mjǫllni eða megingjarðar eða járngreipr, ok olli því Loki; hann fór með honum; þvíat Loka hafði þat hent, þá er hann flaug einu sinni at skemta sér með vals-ham Friggjar, at hann flaug fyrir forvitni sakar í Geirrøðargarða ok sá þar hǫll mikla, settisk ok sá inn of glugg, en Geirrøðr leit í móti honum ok mælti, at taka skyldi fuglinn ok fœra honum; en sendimaðr komsk nauðuliga á hallar-vegginn — svá var hann hár; þat þótti Loka gott, er hann sótti erfiðliga til hans, ok ætlaði sér stund at fljúga eigi upp, fyrr en hann hafði farit alt torleiðit; en er maðrinn sótti at honum, þá beinir hann fluginn ok spyrnir við fast, ok eru þá fœtrnir fastir; var Loki tekinn þar hǫndum ok fœrðr Geirrøði jǫtni. En er hann sá augu hans, þá grunaði hann, at maðr myndi vera, ok bað hann svara, en Loki þagði. Þá læsti Geirrøðr Loka í kistu ok svelti hann þar iii. mánuðr. En þá er Geirrøðr tók hann upp ok beiddi hann orða, þá[3] sagði Loki, hverr hann var, ok til fjǫrlausnar vann hann Geirrøði þess eiða, at hann

[1] Mgl. R. [2] Herefter følger i R, W, T et stykke af digtet; se Tillæg. [3] Sål. W; ok, R, T.

skyldi koma Þór í Geirrøðargarða, svá at hann hefði hvárki hamar[1] né megingjarðar. Þórr kom til gistingar til gýgjar þeirar, er Gríðr er kǫlluð; hon var móðir Víðars ens þǫgla. Hon sagði Þór satt frá Geirrøði[2], at hann var jǫtunn hundvíss ok illr viðreignar; hon léði honum megingjarða ok járngreipr, er hon átti, ok staf sinn, er heitir Gríðarvǫlr. Þá fór Þórr til ár þeirar, er Vimur heitir, allra á mest. Þá spenti hann sik megingjǫrðum ok studdi forstreymis Gríðarvǫl, en Loki helt undir megingjarðar. Ok þá er Þórr kom á miðja ána, þá óx svá mjǫk áin, at uppi braut á ǫxl honum; þá kvað Þórr þetta:

65. Vaxattu nú Vimur,
alls mik þik vaða tíðir
jǫtna garða í;
veiztu, ef þú vex,
at þá vex mér ásmegin
jafn-hátt upp sem himinn.

Þá sér Þórr uppi í gljúfrum nǫkkurum, at Gjálp, dóttir Geirrøðar, stóð þar tveim megin árinnar ok gerði hon ár-vǫxtinn. Þá tók Þórr upp ór ánni stein mikinn ok kastaði at henni ok mælti svá: »at ósi skal á stemma«. Eigi misti hann, þar er hann kastaði til, — ok í því bili bar hann at landi ok fekk tekit reynirunn nǫkkurn ok steig svá ór ánni; því er þat orðtak haft, at reynir er bjǫrg Þórs. En er Þórr kom til Geirrøðar, þá var þeim félǫgum vísat fyrst í geita-hús til herbergis, ok var þar einn stóll til sætis ok sat Þórr[3] þar[3]. Þá varð hann þess varr, at stóllinn fór undir honum upp at ræfri; hann stakk Gríðarveli upp í raptana ok lét sígask fast á stólinn; varð þá brestr mikill ok fylgði skrækr[4]. Þar hǫfðu verit undir stólinum dœtr Geirrøðar, Gjálp ok Greip, ok hafði hann brotit hrygginn í báðum[5]. Þá lét Geirrøðr kalla Þór í hǫllina til leika; þar váru eldar stórir eptir endilangri hǫll[6]. En er Þórr kom[7] gagnvart Geirrøði, þá tók

---

[1] Sål. W, T; med art. U, R. [2] -roðar, T. [3] Sål. U, W, T; omv. R. [4] mikill tf. R. [5] Her tf. U: Þá kvað Þórr: Einu neytta ek allz megins jǫtna gǫrðum í; þá er Gjálp ok Gneip dœtr Geirraðar vildu hefja mik til himins. [6] Sål. U, W, T; med art. R. [7] í hǫllina tf. R.

Geirrøðr með tǫng járnsíu glóandi ok kastar at Þór, en Þórr tók í móti með járngreipum ok fœrir á lopt síuna, en Geirrøðr hljóp undir járnsúlu at forða sér. Þórr kastaði síunni ok laust í[1] gǫgnum súluna ok gǫgnum Geirrøð ok gǫgnum vegginn ok svá fyrir útan í[1] jǫrðina. Eptir þessi sǫgu hefir ort Eilífr Guðrúnarson í Þórsdrápu[2].

19. Hvernig skal kenna Frigg? — Svá at kalla hana dóttur Fjǫrgvns, konu Óðins, móður Baldrs, elju Jarðar ok Rindar ok Gunnlaðar ok Gríðar[3], sværa Nǫnnu, drótning ása ok ásynja, Fullu ok vals-hams ok Fensala.

20. Hvernig skal Freyju kenna? — Svá, at kalla hana[4] dóttur Njarðar, systur Freys, konu Óðs[5], móður Hnossar, eigandi valfallz ok Sessrúmnis ok fressa, Brísingamens, Vana-goð, Vana-dís, et grátfagra goð, ásta-guð[6]. — Svá má kenna allar ásynjur at nefna annarrar nafni ok kenna við eign eða verk sín eða ættir[7].

Ásu er svá rétt at kenna at kalla einn hvern annars nafni ok kenna við verk sín eða eign eða ættir[8].

21 (23). Hvernig skal kenna himininn[9]? — Svá, at kalla hann Ymis haus ok þar af jǫtuns haus ok erfiði eða byrði dverganna eða hjálm Vestra ok Austra, Suðra, Norðra, land sólar ok tungls ok himintungla, vagna ok veðra, hjálmr eða hús lopts ok jarðar ok sólar. Svá kvað Arnórr jarlaskáld:

66. Ungr skjǫldungr stígr aldri (þess vas grams) und
jafnmildr á við skildan[10] gǫmlum
(gnóg rausn) Ymis hausi.

Ok enn sem hann kvað:

---

[1] Mgl. R. [2] Herefter følger i R, W, T digtet; se Tillæg. [3] Sål. U først, men ved rettelse Gerðar; Gerðar, de øvr. [4] Sål. U, 757, T; mgl. R, W. [5] Óðins, R, U. [6] Sål. W, T, 757; mgl. U, R. [7] Herefter følger i R, W, T, 757 to kapp. om Sif og Iðun, 21, 22 (dette mgl. i U) med et stykke af Haustlǫng, se Tillæg. [8] Dette prosastykke findes i W, T, U (ikke ordret), 757, og i R lige efter digtet. [9] Sål. U, T, 757; himin, W, R. [10] Sål. U; skildar, T; skjaldar, de øvr.

67. Bjǫrt verðr sól at svartri,
søkkr fold í mar døkkvan,
brestr erfiði Austra,
allr glymr sjár á fjǫllum.

Svá kvað Bǫðvarr[1] balti[1]:

68. Alls engi verðr Inga
undir sólar grundu
bǫðvar hvatr né betri
brœðr landreki œðri.

Ok sem kvað Þjóðólfr enn hvinverski:

69. Ók at ísarnleiki
Jarðar sunr, en[2] dunði
(móðr svall Meila blóða)
mána vegr und hǫ́num.

Svá sem kvað Ormr Barreyjarskáld[3]:

70. Hvégi es, Draupnis drógar
dís, ramman spyrk vísa,
(sá ræðr) valdr (fyr veldi)
vagnbrautar mér fagnar.

Svá sem kvað Bragi skáld:

71. Hinn es varp á víða
vinda Ǫndurdísar
of manna sjǫt margra
mundlaug fǫður augum.

Ok sem Markús kvað:

72. Fjarri hefr, at fœðisk dýrri
flotna vǫrðr á élkers botni,
hǫ́va leyfir hverr maðr æfi
hringvarpaðar, gjalfri kringðum.

Svá sem kvað Steinn Herdísarson:

73. Hǫ́s kveðk helgan ræsi
heimtjalds at brag þeima
(mærð[4] tésk[5] framm) an fyrða
fyrr, þvít hann es dyrri.

Ok sem kvað Arnórr jarlaskáld:

74. Hjalp dýrr konungr dýrum
dags grundar Hermundi.

Ok enn sem kvað Arnórr:

75. Saðr stillir hjalp snjǫllum
sóltjalda Rǫgnvaldi.

Ok sem kvað Hallvarðr:

76. Knútr verr jǫrð sem[6] ítran
alls dróttinn[7] sal fjalla.

Sem Arnórr kvað:

---

[1] Sål. U; kolli, R, 757; Svá—balti mgl. W; ok enn sem (ok—sem, sål. også R) hann kvað, T. [2] Sål. U, W, T; ok, R. [3] Sål. W, T; -eyja-, U, R, 757. [4] meið, R. [5] Sål. W; telz, U, 757; ræzk, R; rekz, T. [6] með, R. [7] drotni, R.

77. Míkáll vegr þat es misgǫrt þykkir
manvits fróðr ok alt et góða;
tyggi skiptir síðan seggjum
sólar hjalms á dœmistóli.

**22 (24).** Hvernig skal jǫrð kenna? — Svá[1], at[1] kalla hana[1] Ymis hold ok móður Þórs, dóttur Ónars[2], brúði Óðins, elju Friggjar ok Rindar ok Gunnlaðar, sværu Sifjar, gólf ok botn veðra-hallar, sjár[3] dýranna, dóttir Náttar, systir Auðs ok Dags. Svá sem kvað Eyvindr skáldaspillir:

78. Nú's alfrǫðull elfar
jǫtna dolgs of folginn,
rǫð eru rammrar þjóðar
rík, í móður líki.

Sem kvað Hallfrøðr vandræðaskáld:

79. Rǫð lukusk, at sá, síðan,
snjallráðr konungs spjalli
átti einga-dóttur
Ónars viði gróna.

Ok enn sagði hann:

80. Breiðleita gat brúði
Báleygs at sér teygða[4]
stefnir stǫðvar hrafna
stála ríkis-mǫlum[5].

Svá sem kvað Þjóðólfr:

81. Útan bindr við enda
elgvers glǫðuðr hersa
hreins við, húfi rónum,
hafs botni far[6] gotna.

Sem Hallfrøðr kvað:

82. Því hykk fleygjanda frægjan[7],
ferr jǫrð und menþverri
ítran, eina at[8] láta
Auðs systur[9] mjǫk trauðan.

Svá kvað Þjóðólfr:

83. Dolgljóss, hefir dási
darrlatr staðit fjarri,
endr þás elju Rindar
ómynda[10] tók skyndir.

**23 (25).** Hvernig skal sæ kenna? — Svá at kalla hann Ymis blóð, heimsœkir goðanna, verr Ránar, faðir Ægis-dœtra, þeira er svá heita, Himinglæva, Dúfa, Blóðughadda, Hefring, Uðr, Hrǫnn, Bylgja, Bára, Kólga, land Ránar ok Ægis-dœtra

---

[1] Sål. U, W, T, 757; mgl. R. [2] Sål. R, 757; ana(r)s, U, W, T. [3] Sål. U, W, T, 757; sjá, R. [4] Sål. W, T, 757; teygja, R. [5] Herefter tf. R, 757: Svá sem fyrr er ritat: Fjarri hefr at fœðisk dýrri; mgl. U, W, T. [6] fiar, R. [7] Sål. alle (ur. vistnok for frakkna). [8] Mgl. R. [9] Sål. U; mgl. R, T, W; þerssa, 757. [10] Sål. ó-, U; y- (j-), de øvr.

ok skipa ok sæskips-heita, kjalar, stála, súða, sýju, fiska, ísa, sækonunga leið ok braut, eigi síðr hringr eyjanna, hús sanda ok þangs ok skerja, dorgar land ok sæfogla, byrjar. Svá sem kvað Ormr Barreyjarskáld:

84. Útan gnýr á eyri
Ymis blóð — fara góðra.

Svá kvað Refr:

85. Vágþrýsta berr vestan,
vættik lands fyr brandi,
(hvalmœni skefr) húna
hógdýr of lǫg bógu.

Svá sem kvað Sveinn:

86. Þás élreifar ófu
Ægis dœtr ok tœttu[1]
fǫls[2], við frost of alnar,
fjallgarðs rokur harðar.

Ok sem kvað Refr:

87. Fœrir bjǫrn, þars bára
brestr, undinna festa
opt í Ægis kjapta
úrsvǫl[3] Gymis vǫlva.

Hér er sagt, at alt er eitt, Ægir [ok Hlér] ok Gymir. Ok enn kvað hann:

88. En sægnípu[4] Sleipnir
slítr úrdrifinn[5] hvítrar
Ránar, rauðum steini
runnit, brjóst ór munni.

Sem kvað Einarr Skúlason:

89. Harðr hefr ǫrt frá jǫrðu
élvindr, svana strindar
blakkr[6] lætr[6] í sog søkkva
snægrund[7], skipi hrundit.

Ok enn sem hann kvað:

90. Margr ríss, en drífr dorgar
dynstrǫnd í svig lǫndum,
spend verða stǫg stundum,
stirðr[8] keipr, fira greipum.

Ok enn kvað hann:

91. Gránn[9], bera gollna[10] spǫnu
(gǫfug ferð es sú jǫfri)
skýtr holmfjǫturr Heita
hrafni, snekkju stafnar[11].

Enn sem hann kvað:

92. Haustkǫld skotar hélðum
holmrǫnd varar ǫndri.

Ok enn svá:

---

[1] Sål. W, T (teu-), 757; teygðu, R; v. mgl. U. [2] Sål. K. G.; fals, alle. [3] Sål. U; út-, de øvr. [4] sjá-, alle (snia, U). [5] vindriðinn, U, T, 757. [6] Sål. alle undt. R: blakk leitr (forskr. T). [7] sæ-, R. [8] Sål. alle undt. R: stirð. [9] Sål. udg.; grans, alle. [10] goldna, R. [11] stafna, alle.

93. Sundr springr svalra landa
sverrigjǫrð fyr bǫrðum.

Sem Snæbjǫrn kvað:

94. Hvatt kveða hrœra Grotta
hergrimmastan skerja
út fyr jarðar skauti
4 eylúðrs níu brúðir,
þær es (lungs) fyr lǫngu
líðmeldr (skipa hlíðar
baugskerðir rístr barði
8 ból) Amlóða mólu.

Hér er kallat hafit Amlóða kvern. — Enn sem kvað Einarr Skúlason:

95. Viknar ramr í, Rakna,
reksaumr fluga-straumi,
dúks hrindr bǫl, þars[1] bleikir
bifgrund, á[2] stag rifjum.

**24 (26).** Hvernig skal kenna sól? — Svá, at kalla hana dóttur Mundilfara[3], systur Mána, kona Glens, eldr himins ok lopts. Svá sem kvað Skúli Þorsteinsson:

96. Glens beðja veðr gyðju
goðblíð í vé, síðan
ljós kømr gótt, með geislum,
gránserks ofan Mána.

Svá kvað Einarr Skúlason:

97. Hvargi's Beita borgar
bálgrimmustum[4] skála
hǫ́r of[5] hnossvin órum
heims vafrlogi sveimar.

**25 (27).** Hvernig skal kenna vind? — Svá, at kalla hann son Fornjóts, bróður Ægis ok eldz, brjót viðar, skaði ok bani eða hundr eða vargr viðar eða segls eða seglreiða[6]. — Svá sagði Sveinn í Norðrsetudrápu:

98. Tóku fyrst til fjúka
Fornjóts sønir ljótir.

**26 (28).** Hvernig skal kenna eld? — Svá, at kalla hann bróður vindz ok Ægis, bana ok grand viðar ok húsa, Hálfs bani, sól húsanna.

**27 (29).** Hvernig skal kenna vetr? — Svá, at kalla hann son Vindsvals ok bana orma, hríðmál. Svá kvað Ormr Steinþórsson:

---

[1] Sål. U, 757, W, T; þar, R. [2] Sål. alle, undt. R: -ar (ɔ: grundar). [3] Sål. W, 757; -færa, R, T (ó); -feta, U. [4] Sål. U; -grimmastan, de øvr. af, R. [6] -reipa, W, T, 757.

99. Ræðk þenna mǫg manni | Vindsvals unað blindum.

Svá kvað Ásgrímr:

100. Siggœðir[1] vas síðan | (þjóð veit þínar íðir)
seimǫrr í Þrándheimi | þann orms trega (sannar).

**28 (30).** Hvernig skal kenna sumar? — Svá, at kalla son Svásaðar ok líkn ormanna[2] ok[3] gróðr manna[4]. Svá sem kvað Egill Skallagrímsson:

101. Upp skolum órum sverðum, | eigum dǫð at drýgja
ulfs tannlituðr, glitra; | í dalmiskunn fiska.

**29 (31).** Hvernig skal kenna manninn[5]? — Hann skal kenna við verk sín, þat er hann veitir eða þiggr eða gerir; hann má ok kenna til eignar sinnar, þeirar er hann á ok svá ef hann gaf; svá ok við ættir þær, er hann kom af, svá þær, er frá honum kómu. — Hvernig skal hann kenna við þessa hluti? — Svá, at kalla hann vinnanda eða fremjanda[6] fara sinna eða athafnar, víga eða sæfara eða veiða eða vápna eða skipa. Ok fyrir því at hann er reynir vápnanna ok viðr víganna — alt eitt ok vinnandi; viðr heitir tré, reynir heitir ok[7] tré; af þessum heitum hafa skáldin kallat manninn[8] ask eða hlyn, lund eða ǫðrum viðar-heitum karlkendum ok kent til víga eða skipa eða fjár. Mann er ok rétt at kenna til allra ása-heita; kent er ok við jǫtna-heiti, ok er þat flest háð eða lastmæli. Vel þykkir kent til álfa. Konu skal kenna til allz kvenbúnaðar, gullz ok gimsteina, ǫls eða víns eða annars drykkjar, þess er hon selr eða gefr, svá ok til ǫlgagna ok til allra þeira hluta, er henni samir at vinna eða veita. Rétt er at kenna hana svá, at kalla hana selju eða lǫg[9] þess, er hon miðlar, en selja eða lǫg[10] — þat eru tré. Fyrir því

---

[1] Sigr-, alle, undt. U (sigbjóðr). [2] Sål. W, 757 (uden art.); manna, T, R; mgl. U. [3] Mgl. R, T. [4] Sål. R; mars, 757; mgl. de øvr.; jfr. dog mannlíkn, U. [5] Sål. alle, undt. R: uden art. [6] eða tf. R, 757; eða til tf. W; mgl. T, U. Mulig har der oprindelig stået: eða eiganda passende til vápna eða skipa. [7] Dette ok står i R, 757 foran det næst foregående tré. [8] Sål. alle, undt. R: menn. [9] log, R, T; lòg, W; lág, U, 757. [10] log, R, T, W; lág, U, 757.

